ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan



MÁLGAGN KOMMÚNISTAFLOKKS ÍSLANDS/ML

12-13. tbl. 5. árg. 1976

VERÐ: 100 kr.

Sökum mikilla hækkana sem orðið hafa á öllu efni, vinnu og prentun blaðsins neyðumst við til að hækka lausasöluverð um 30 kr. eintakið, eða í 100 krónur.
Áskriftarverð hefur verið ákveðið til samræmis, og er verð áskrifta fyrir 1 ár, miðað við hálfsmánaðarblað, eftirfarandi:

Baráttuáskrift: 3000 kr.
Stuðningsáskrift: 2400 kr.
Venjuleg: 1800 kr.

-/Ritstj.

# „Rauða strikið" haldlítil vörn

Í síðasta samkomulagi ASÍ og VSÍ var samið um kauphækkun í áföngum, en jafnframt því skyldi vísitala framfærslukostnaðar reiknuð út á fjögurra mánaða fresti, með tilliti til þess hvort hún væri þá komin upp fyrir "rauða strikið" svo nefnda eða ekki, og ef vísitalan reyndist komin upp fyrir þetta "strik", skyldi mismunurinn koma til útborgunar mánuði eftir þessa útreikninga. 1. júní sl. var vísitala framfærslukostnaðar reiknuð út og reyndist hún vera 578,64 stig, en það gerir 2,67% fram yfir "rauða strikið". 6% kauphækkun kemur til framkvæmda 1. júlí og þegar vísitölunni hefur verið bætt við gerir þetta allt í allt 8,83% kauphækkun.




## "Rauða strikið" haldlítil trygging gegn kjaraskerðingarárásum auðvaldsins

Þetta sýnir okkur aðeins, að það er tilgangslítið að semja um svokölluð "rauð strik", sem í fyrsta lagi virka ekki fyrr en verðhækkanaskriðurnar hafa náð ákveðnu hámarki og vega þar af leiðandi lítið sem ekkert á móti kjaraskerðingarárásum auðvaldsins og koma í öðru lagi ekki til framkvæmda fyrr en verkafólk hefur fengið að súpa seiðið af verðhækkunarflóðinu í nokkra mánuði.

Því brýnni er krafan um fullar vísitölubætur á laun, sem einu raunhæfu tryggingunni gegn verðhækkununum, en þá hefur það litla þýðingu að reikna út vísitöluna á nokkurra mánaða fresti, hana þyrfti að reikna út við hver mánaðarmót.

## Sósíalisminn eina lausnin!

Sú skoðun er ekki óalgeng, að það sé gersamlega tilgangslaust að berjast fyrir svo og svo miklum kauphækkunum, þær verði hvort eð er teknar af okkur aftur með stórfelldri hækkun nauðsynjavara og opinberri þjónustu. Þessi skoðun er rétt að því leyti, að kjarabaráttan getur aldrei leitt til endanlegs markmiðs, þar er um stöðuga varnarbaráttu að ræða. Vissulega verður að berjast fyrir lífvænlegum laun um fyrir dagvinnu eina saman, en það má aldrei líta á þá baráttu sem markmið í sjálfu sér - slíkt væri ekkert annað en knéfall fyrir endurbótastefnunni.

Áður fyrr litum við svo á, að það yrði að setja "hráan" kommúnískan áróður í fyrirrúm, jafnt innan verkalýðsfélaganna sem og annarra fjölda hreyfinga. Slíkt var ekkert annað en hreinræktuð "vinstri hentistefna". Á hinn bóginn verðum við að gæta okkur á því að "dýrka" ekki svo mjög kjarabaráttuna og alla baráttu fyrir endurbótum handa alþýðunni innan auðvaldsskipulagsins, að við gleymum því, að það er aðeins undirbúningur fyrir sjálft byltingarstríðið. Markmið okkar er að fylkja verkalýð og vinnandi alþýðu saman undir merki Kommún-

FRAMHALD Á BAKSÍÐU

# Hverjum tilheyra verkalýðsfélögin

Allt frá því að Kommúnistaflokkur Íslands var lagður niður árið 1938 og fram til dagsins í dag hefur verið tímabil hnignunar og afturfarar hjá verkalýðsfélögunum. Á þeim stutta tíma sem flokkurinn starfaði, náði hann leiðsögn innan fjölda verkalýðsfélaga, og nokkuð var um það að félög væru stofnuð undir handleiðslu flokksins. Þau verkalýðsfélög sem nátengdust voru flokknum börðust á grundvelli stéttabaráttu gegn gjörvöllu auðvaldinu og gegn fulltrúum borgarastéttarinnar innan raða verkalýðsins sem var ASÍ þeirra tíma og verkalýðsleiðtogarnir úr röðum Alþýðuflokksins. Þau verkalýðsfélög sem lutu leiðsögn flokksins börðust jöfnum höndum varnarbaráttu fyrir kjörum verkalýðsins, og pólitískri baráttu sem miðaði að því að afnema arðrán manns á manni, afnema auðvaldsþjóðfélagið. En er flokkurinn var lagður niður nær ný stefna yfir höndinni: Ekkert skyldi lengur minnst á pólitík innan fagfélaganna öðruvísi en að reyna að beita þeim fyrir þingræðispólitík Sósíalistaflokksins, fagleg barátta átti að verða eina verkefni fagfélaganna, og heildarsamtökin, ASÍ, skyldi efla og styrkja. Með því að stéttabaráttustefnan beið ósigur en endbótastefnan sigraði var markað upphafið að þeirri niðurlægingu sem íslensk verkalýðshreyfing er komin í. Völdin hafa smám saman færst öll í hendurnar á fámennri toppklíku sem rekur sína verkalýðspólitík algerlega eftir leikreglum borgarastéttarinnar. Verkalýðsfélögin eru hætt að vera lýðræðislegur baráttuvettvangur allrar stéttarinnar, heldur er í dag haldið uppi innan þeirra málamyndalýðræði á þeim fáu fundum sem forystan heldur af "illri nauðsyn." Ákvarðanir eru teknar á lokuðum stjórnarfundum og sjaldnast gefið tækifæri á að ræða þær nokkuð innan félaganna. Með stefnu sinni að fagfélögin skuli vera "ópólitísk" er alls konar borgaralegum fordómum gefið tækifæri til að ná ítökum meðal verkamanna, og það hefur rutt stéttasamvinnustefnunni og uppgjafarstefnunni veginn.

Þessi þróun hefur leitt til þess að innan gjörvallrar fagfélagahreyfingarinnar er komin upp ósættanleg móthverfa: Annars vegar eru fagfélagaforkólfarnir sem mynda ASÍ-toppklíkuna og hins vegar vonsvikinn og þreyttur verkalýðsfjöldinn, sem sökum svika eigin forystu hættir til uppgjafar og vonleysis. Svik stéttasamvinnustefnunnar koma skýrast

FRAMHALD Á BAKSÍÐU

# Líbanon: Innrás og stórveldaíhlutun strandar á samstöðu alþýðunnar

Með 24.000 hermenn, skriðdreka og sprengjuþotur réðist sýrlenski herinn inn í Líbanon. Markmið innrásarinnar var aðeins eitt: að brjóta á bak aftur sigursæla baráttu palestínuaraba og vinstri manna í Libanon gegn fulltrúum heimsvaldastefnu og kúgunar, gegn falangistaflokknum sem um árabil hefur stutt árásarstefnu Ísrael og unnið leynt og ljóst að því að brjóta á bak aftur palestínsku byltinguna. Assad sýrlandsforseti hélt að hann gæti kúgað palestínuaraba, og hann hafði tryggt sér stuðning risaveldanna Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Bandaríkin höfðu lofað að beita áhrifum sínum til að fá Ísraelsmenn til að afhenda hluta Gólanhæðanna til baka, og Sovétmenn höfðu trú á því að Sýrlendingar myndu sigra og með því að veðja á þá myndu þeir enn efla ítök sín fyrir botni miðjarðarhafs. En palestínsk alþýða í bandalagi við libanska alþýðu sýndi að íhlutanir stórveldanna verða ekki liðin.

## Hvernig framsækin öfl í Libanon mættu innrásinni

Til að byrja með voru palestínuarabar furðu lostnir. Þau svik sem Assad gerði sig sekan um voru ótrúleg. En fljótlega hófu þeir skipulagningu mótstöðu. Sýrlenski herinn sótti fram án þess að mæta teljandi andspyrnu fyrstu 3-4 dagana. Þá kom hann í þann hluta Libanon sem oft er kallaður Fatah-land, en það er vegna þess hversu sterka stöðu PLO hefur í þeim landshluta. Þar er mjög fjöllótt og auðvelt að verjast. Hermenn PLO vörðu fjallaskörðin sem varða leiðina að Beirut, og þar var sýrlenski herinn stöðvaður. PLO beitti fyrst og fremst aðferð rökræðna við sýrlensku hermennina. PLO varaðist sem best var hægt að lenda í bardögum við þá, því þó forysta þeirra hafi svikið er alþýða Sýrlands almennt mótfallin árásum gegn Palestínuörubum og stendur heilshugar með þeim í baráttunni gegn heimsvaldastefnunni. Enda varð það raunin að fjöldi sýrlenskra hermanna neitaði að berjast gegn palestínuörubum og vinstri mönnum og sýrlenski herinn mátti sætta sig við ósigur.

## Ástæðan fyrir innrásinni.

Assad Sýrlandsforseti hefur undanfarin ár mætt mikilli gagnrýni frá vinstri fyrir lina afstöðu gagnvart heimsvaldastefnunni. Sú gagnrýni hefur fengið byr undir báða vængi með eflingu vinstri manna í Libanon. Sýrland óttaðist líka að ef vinstri menn sigruðu í Libanon myndu ísraelsmenn ráðast inn í suðurhluta landsins og hertaka hann, en það myndi þýða að Damaskus væri algerlega opin fyrir árásum þaðan. Því höfðu Bandaríkin og Sýrland sameiginlega hagsmuni af því að stöðva framgang palestínuaraba og vinstri manna í Libanon og auk þess hugsuðu Bandaríkin gott til glóðarinnar að eiga heiðurinn af því að færa Sýrlandi aftur hluta Gólanhæðanna.

## Risaveldin og Libanon

Mið-austurlönd eru sá brennipunktur þar sem hagsmunir risaveldanna skerast hvað skýrast. Í brjálæðislegu kapphlaupi sínu um heimsyfirráð gera þau allt sem í þeirra valdi stendur til að hafa lykilstöðu gagnvart olíunni þar, því sá sem henni ræður hefur kverkatak á Evrópu. Þess vegna stjórnast gerðir þeirra í þessum heimshluta algerlega af heimsvaldahagsmunum en ekki af "samstöðu" með einum eða öðrum. Í októberstríðinu gerðu þau það sem í þeirra valdi stóð til að hindra að valdajafnvægið breyttist því þá var hætta á að þau misstu úrslitatök á hvað væri að gerast. Sovétríkin neituðu að láta sameinuðum herafla araba í té vara

frh. á baksíðu



Líbönsk alþýða hnekkti íhlutun sýrlendinga og stórveldanna.

## Inni í blaðinu:




STÉTTABARÁTTAN 12/13 tbl.
5. árg. 3o.6. 1976

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
STÉTTABARÁTTAN kemur út hálfsmánaðarlega.
Póstfang: Pósthólf 1357, Rvík.
Sími: 27810.
Ritstj. & ábm: Ólafur Ingólfsson
Gíró:27810.

# Færum stefnuskrána út í starfi

Síðan KFÍ/ML var stofnaður hafa endurskoðunarsinnarnir á Þjóðviljanum eflt baráttu sína gegn marxismanum-lenínismanum; fyrst og fremst með tilraunum til að gera Kommúnistaflokkinn broslegan, en einnig með heiftarlegum árásum á Alþýðulýðveldið Kína. Litlu klíkurnar á vinstri kantinum hafa reynst Alþýðubandalags-forystunni hjálplegar í þessu efni, einkum með beinum og opinberum árásum á flokkinn. En hatur endurskoðunarsinnanna á kommúnismanum sprettur af stuðningi þeirra við borgarastéttina. KFÍ/ML getur verið stoltur af hatri borgarastéttarinnar sem beinist gegn honum, því það táknar, að hún óttast flokkinn og vaxandi styrk hans.

Miðstjórn KFÍ/ML hefur ekki mótað nægilega ljósa afstöðu sína til endurskoðunarsinna í starfinu. Í stefnuskrá flokksins segir: "Nútíma endurskoðunarsinnar og endurbótasinnar eru erindrekar borgarastéttarinnar í herbúðum verkalýðsins og beinir stéttaróvinir hans." (Hvað vill KFÍ/ML, bls. 35, grein 20, okkar undirstrikun). Þessi marxíska-leníníska skilgreining á eðli og afstöðu endurskoðunarstefnunnar verður alltaf að liggja til grundvallar í gervöllu starfi flokksins. Sáttfýsi eða hik gagnvart endurskoðunarsinnum þýðir ósigur fyrir verkalýðinn. Milli okkar og þeirra getur ekki ríkt neitt nema ósættanleg barátta upp á líf og dauða. Allsstaðar þar sem endurskoðunarsinnar starfa innan fjöldahreyfinganna verða marxistarnir-lenínistarnir að heyja óhvikula og sífellda baráttu gegn þeim, afhjúpa svik þeirra og fletta ofan af þjónustu þeirra við borgarastéttina. Þetta á jafnt við um baráttuna innan verkalýðsfélaganna sem herstöðvaandstæðingasamtakanna, Rauðsokkanna og annars staðar.

Dæmigert fyrir rangt mat á eðli og sviksamlegri afstöðu endurskoðunarsinna, er starf flokksins, þegar samið var við breta. Í stað þess að boða til sjálfstæðra aðgerða og taka leiðsögn fyrir baráttu alþýðunnar strax, valdi miðstjórn að bíða og reyna að ná breiðari samfylkingu, m.a. við endurskoðunarsinnana. Mistökin fólust í því, að Kommúnistaflokkurinn sneri máli sínu til hinnar endurskoðunarsinnuðu og endurbótasinnuðu forystu í stað þess að treysta á afl fjöldans. Afleiðingarnar urðu þær, að fyrirhugaður útifundur og ganga flokksins á laugardaginn 29. maí fórst fyrir, en AB, ASÍ og Alþýðufl. héldu fund á Lækjartorgi 2. júní, eftir að samningarnir voru í höfn. Miðstjórn KFÍ/ML gaf út aukablað af Stéttabaráttunni, þar sem afstaða flokksins var gerð ljós og aðgreindi sig þar með fullkomlega frá endurskoðunar- og endurbótasinnum, sem lögðu meginaherslu á, að þing yrði kallað saman. Lína flokksins var að hvetja verkafólk til að grípa til baráttunnar sjálft undir leiðsögn flokksins, með mótmælayfirlýsingum og -fundum og verkföllum.

Mistökin sem gerð voru í sambandi við útifundinn verður að leiðrétta og láta þau verða að skóla í því, hvernig rangt mat á endurskoðunarsinnunum getur þýtt ósigur fyrir fjöldann. Látum þetta verða okkur að kenningu; allir félagar flokksins verða að gæða starf sitt pólitísku innihaldi stefnuskrárinnar. Ef við færum hana út í starfi okkar, munum við öðlast sigur.

23/6

# Söngsveitin Október auglýsir eftir nýjum starfskröftum

Söngsveitin Október hefur starfað með hléum í tæp tvö ár. Fram til þessa hefur hún komið nokkrum sinnum fram opinberlega, síðast í Háskólabíó á 1. maí. Æfingar hafa oftast verið einu sinni í viku en til stendur að fjölga þeim ef mögulegt er.

Sveitin hefur verið skipuð 6-7 manns - en nú ríkir skortur á gítarleikurum og góðu söngfólki. Þið sem hafið áhugann, hafið samband við Skúlínu í síma 86648 eða bókabúðina Rauðu stjörnuna Lindargötu 15, sími 27810.

## HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357 Reykjavík, einnig í síma 27810.
Ritstjórnir Stéttabaráttunnar og Rauða fánans: Pósthólf 1357, Rvík, einnig í síma 27810
Reykjavíkurdeild: Lindargötu 15, sími: 27810.
Akureyrardeild: Guðvarður M. Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23, einnig pósthólf 650, Akureyri.
Suðurnesjadeild: Jónas H. Jónsson, Holtsgötu 26 Njarðvík, sími: 2641.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.
Neskaupstaður: Stuðningsdeild c/o Messíana Tómasdóttir, Miðhúsum.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson, Skólabraut 10, Hellissandi.
Eiðar, S-Múl.: Stefán Jóhannsson.

## Hvar geturðu keypt Stéttabaráttuna?

SUÐURLAND:
Reykjavík: Rauða stjarnan, Lindargötu 15.
Bóksala stúdenta í Félagsstofnuninni v/ Hringbraut.
Einnig fæst blaðið nú í mörgum söluturnum.
Suðurnes: Jónas H. Jónsson, Holtsgötu 26, Njarðvík.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.
Vestmannaeyjar: Guðrún Garðarsdóttir, Þorlaugsgerði.

VESTURLAND:
Hellissandur: Sigfús Almarsson, Skólabraut 10.
Flateyri: Guðrún Helgadóttir Hrannargerði 3

NORÐURLAND:
Akureyri: Guðvarður Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23.
Siglufjörður: Söluturninn við Aðalgötu.
Húsavík: Þórarinn Ólafsson, Sólbrekku 5.

AUSTURLAND
Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Miðhúsum.

Íslenskir námsmenn erlendis.

Nú getið þið keypt Stéttabaráttuna hjá umboðsmönnum okkar í nokkrum borgum á norðurlöndum.

NOREGUR:
Oslo: Katrín H. Andrésdóttir, Sogn Studentby 1310, Oslo 8,

SVÍÞJÓÐ:
SOLNA:
Magnús Sæmundsson
Kungshamra 23a
17170 Solna
Lundur: Jón Rúnar Sveinsson, Kämnärsvägen 5 D: 218
222 46 Lund.

DANMÖRK:
Århus: Magnús Þorgrímsson, Börglum Kollegiet v 444, Börglumsvej 2, 8240 Risskov.



Út er komið nýtt tölublað Rauða fánans, Tímarit Kommúnistaflokks Íslands m-l, það fyrsta á árinu 1976. Ritið er 32 síður að stærð, í minna broti en áður hefur tíðkast eða u.þ.b. A5.

Í Rauða fánanum eru að þessu sinni greinar um stéttaskiptinguna, um heimspekina, um sameiningu bandarískra marxista-lenínista o.fl. Hann kostar í lausasölu kr. 200, en ársáskrift kostar kr. 500-1000.

# Hver er afstaða KFÍ/ML? Valdbylting

Þessi grein er sú fyrsta í greinaflokki sem ritstjórn hleypir nú af stokkunum - greinarflokknum er ætlað að skýra út stefnu KFÍ/ML í einstökum málum. Lesendum er velkomið að senda inn fyrirspurnir sem við leitumst við að svara.

---

Í stefnuskrá KFÍ/ML segir: "Grundvallarstefnumið KFÍ/ML er að leiða verkalýð og vinnandi alþýðu til vopnaðrar valdbyltingar, að steypa alræði borgarastéttarinnar og reisa á rústum þess alræði öreiganna á Íslandi."

Í starfi okkar kommúnista rekumst við þráfaldlega á fólk sem telur sig hlynnt sósíalisma en lýsir sig andstætt öllu tali um vopnaða byltingu. Ennfremur eru velþekktar tilraunir borgaralegra fjölmiðla til þess að láta kommúnista koma fyrir augu alþýðunnar sem blóðþyrsta ofbeldismenn með sitt helsta markmið að koma í kring blóðsúthellingum. Tilraunir borgarastéttarinnar til þess að koma þessum stimpli á kommúnista haldast í hendur við áróður þeirra um hið "friðsamlega og stéttlausa þjóðfélag á Íslandi." Sú blaðra heldur aldrei vindi lengi, sífelld átök verkalýðsins við kapitalistana eru sönnun þess að andstæður þeirra á milli eru ósættanlegar. Þessi barátta hefur tekið á sig margvísleg form, allt frá verkföllum til beinna átaka (t.d. 1932).

Það vandamál sem hér um ræðir er þegar allt kemur til alls spurningin um það hvernig verkalýðsstéttin kemst til valda og getur reist alræði sitt. Áróður borgarastéttarinnar er auðvitað sá, að þeir sem vilja raunverulega vinna að valdatöku verkalýðsins séu á skjön við veruleikann. En þeir sem telja sig sósíalista, en hafna leið vopnaðrar valdatöku, eru fylgjendur s.k. þingræðislegrar leiðar til sósíalismans. Þingræðilega leiðin er leið kratanna - þ.e. þeir vinna að því að fylkja verkalýðnum um stjórnarfyrirkomulag borgarastéttarinnar, borgaralega lýðræðið. Sterkasti krataflokkurinn hérlendis er nú Alþýðubandalagið, flokkur nútíma endurskoðunarstefnunnar. Nútíma endurskoðunarstefnan er sú endurskoðun á marxismanum sem Krúsjof og klíka hans stóð fyrir eftir að þeir náðu völdum í Sovétríkjunum og hófu endurreisn kapitalismans þar. Þingræðisleiðin til sósíalismans (sem auðvitað er ekki leiðin þangað) var þannig sett fram í ræðu Krúsjofs á 20. þing Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna 1956. "Öruggur þingmeirihluti, sem hefur að baki sér öfluga byltingarhreyfingu öreiga og vinnandi fólks, gæti orðið þess megnugur að tryggja verkafólki í ýmsum auðvaldsríkjum og fyrri nýlendum þau skilyrði sem þarf til að framkvæma gagngerar breytingar á þjóðfélaginu." Og ennfremur "getur verkalýðsstéttin... tryggt sér öruggan meirihluta á þingi og breytt því úr tæki borgaralýðræðis í raunverulegt hagsmunatæki almennings."

Í stefnuskrá Alþýðubandalagsins segir: "Á fyrsta stigi getur hin sósíalíska hreyfing smátt og smátt komið sér upp stofnunum og aflað sér valdaaðstöðu, sem gerir henni kleift að takmarka og skilorðsbinda á ýmsan hátt verkanir þeirra lögmála er ríkja í auðvaldsskipulaginu." Ennfremur: "En þótt slíkar umbætur séu nauðsynlegur áfangi geta þær þó aldrei komið í stað hinnar eiginlegu þjóðfélagsbyltingar, en með því hugtaki er eingöngu átt við breytingar á sjálfri undirstöðu þjóðfélagsins (þe. eigna og valdakerfinu) en ekki neinar tilteknar aðferðir sem beitt er til að koma henni á."

Bæði Krúsjof og Alþýðubandalagið endurskoða marxismann-lenínismann í mikilvægum grundvallaratriðum, þ.e. hvernig verkalýðurinn kemst til valda. Afstaða Leníns kemur m.a. fram í bókinni Ríki og bylting: "Ríki öreiganna getur ekki leyst hið borgaralega ríki af hólmi nema með valdbyltingu..." (Undirstr. Stb.). Öll reynsla verkalýðsbaráttunnar hefur sannað þessa afstöðu Leníns - hvergi nokkurs staðar hefur verkalýðurinn getað svipt borgarastéttina völdum nema með vopnaðri valdbyltingu. Í deilunum innan heimshreyfingar kommúnista sem spruttu upp eftir svik Krújof-klíkunnar þá setti Kommúnistaflokkur Kína fram afstöðu sína í bæklingnum Tillaga um meginstefnu alþjóðahreyfingar kommúnista: "Hvað varðar umskiptin frá auðvaldsþjóðfélagi til sósíalisma, verður flokkur öreigastéttarinnar að byggja afstöðu sína á stéttabaráttu og byltingu og leggja til grundvallar kenningar marx-lenínismans um öreigabyltinguna og alræði öreiganna. Kommúnistar munu alltaf kjósa að koma umskiptunum til sósíalisma í kring með friðsamlegu móti. En er hægt að gera friðsamleg umskipti að nýrri baráttureglu alþjóðahreyfingu kommúnista? Alls ekki."

KFÍ/ML setur fram í stefnuskrá sinni þá reynslu sem er hægt að draga af baráttu verkalýðsstéttarinnar, þess vegna lýsir flokkurinn því yfir að hann forkasti þingræðisblekkingum krata og endurskoðunarsinna Alþýðubandalagsins. En flokkurinn er fylgjandi því að valdataka verkalýðsins fari friðsamlega fram en að slíkt eigi sér stað er aðeins hægt að tryggja með því að verkalýðurinn er vopnaður og reiðubúinn til að berja niður gagnbyltingartilraunir borgarastéttarinnar.

Nýlegt dæmi um kenningar endurskoðunarsinna í framkvæmd er valdarán herforingjanna í Chile. Innan Alþýðufylkingar Allende voru ráðandi hugmyndir um þingræðislega umbreytingu til sósíalisma. Endurskoðunarflokkur Chile gekk jafnvel fram í því að afvopna verkalýðinn og leiða hann undir fallöxi Pinochet. Ef verkalýður Chile hefði verið vopnaður og haft að leiðsögn marxismann-lenínismann þá hefði hann getað sigrað á sama hátt og alþýða Indókína.

Á Íslandi er borgarastéttin vopnuð og er auk þess í hernaðarbandalagi sem er reiðubúið (og samningsbundið) til þess að grípa inn í ef völdum borgarastéttarinnar er ógnað. Völd verkalýðsins hér á landi fást því aðeins að hann sé reiðubúinn með vopn í hönd að leggja ríkisvald borgarastéttarinnar í rúst. Þau skilyrði sem þurfa að vera til staðar auk réttrar hugmyndafræði og vopna - er alþjóðlegt ástand sem einkennist af upplausn og ringulreið meðal heimsveldanna og takmarkar þannig getu þeirra til þess að ráðast gegn öreigabyltingunni á Íslandi.

(Framhald í næstu blöðum)

# SAMANBURÐUR




Í september á síðasta ári birtist í Stéttabaráttunni listi yfir nokkrar helstu vörutegundir sem kaupa þarf fyrir venjulegt heimili fyrir helgi. Þá var reiknað út að ca. 2/3 af mánaðarkaupi verkamanns á 5. taxta Dagsbrúnar (þá 51.612 kr.) færu í matarkaup.

Blaðamenn Stéttabaráttunnar fóru aftur á kreik fyrir skömmu til að athuga hvað þessar vörutegundir hafa hækkað mikið á þessum tíma. Farið var í venjulegar matvörubúðir og verðin fengin þar. Okkur reiknaðist til að verðhækkanirnar hafi verið að meðaltali 18%. Á sama tíma hefur launahækkun aðeins verið 6-9%, þannig að augljóst er að minna og minna fæst fyrir peningana, og nú þegar er búið að éta upp þá launahækkun sem kemur til útborgunar 1. júlí.

| Vara: | Verð í sep/75 | Verð í jún/76 |
|---|---|---|
| 1/2 kg kjötfars | 133 | 179 |
| 1 kg kindakjöt | 602 | 629 |
| 1 stk fiskflak | 120 | 170 |
| 2 1/2 kg kartöflur | 158 | 340 |
| 1/2 kg smjör | 306 | 430 |
| 4 l mjólk | 164 | 232 |
| 1 stk franskbr. | 68 | 69 |
| 1 stk heilhv. br. | 63 | 69 |
| 1 pk kaffi | 118 | 180 |
| 1/2 kg ostur | 250 | 409 |
| 1/2 kg hvítkál | 305 | 156 |
| 6 stk egg | 160 | 160 |
| 6 stk epli | 224 | 190 |
| 1 pk súpa | 102 | 110 |
| 1 l súrmjólk | 40 | 61 |
| samtals: | 2845 | 3354 |

Hækkanirnar nema hér kr. 5o9, eða ca. 18 %.

# Sósíalisminn er eina leiðin

Umræður um efnahagsmál og hið ótrygga ástand þeirra eru miklar manna á meðal. Fjöldinn allur af kenningum hefur verið settur fram um, hvernig eigi að meðhöndla þetta vandamál, en fæstar benda á neina varanlega lausn.

Íslenska efnahagskerfið einkennist til dæmis í dag af óhemju mikilli verðbólgu, samfara kjaraskerðingu og aukinni hættu á almennu atvinnuleysi. Þetta ástand er reyndar ekki einangrað við Ísland heldur er þetta einkennandi fyrir öll þróuð iðnríki Vestur-Evrópu. Við getum því slegið því föstu að þetta stafar ekki af óstjórn einnar lélegrar ríkisstjórnar, eða "mistökum" í skipulagningu framleiðslunnar hér á landi. Heldur er þetta einkenni á öllum þjóðfélögum sem byggja efnahagskerfi sitt á grundvelli einkaeignarinnar.

Í þeim þjóðfélögum sem við köllum sósíalísk er aftur á móti ekki um að ræða neina verðbólgu eða atvinnuleysi. Þvert á móti fer verðlag þar frekar lækkandi en launin hækka. Í Kína til dæmis hefur verðlag haldist stöðugt og frekar lækkað eftir að þar var komið á sósíalískri framleiðsluskipan upp úr 1949. Til þess að leita skýringa á þessu liggur því beinast við að bera saman þessi tvö efnahagskerfi og út frá því ættum við að geta skilið af hverju efnahagsörðugleikar V-Evrópu stafa.

## Hver á framleiðslutækin?

Það sem fyrst og fremst ræður þjóðfélagsgerðinni er það hvernig eignafyrirkomulaginu er háttað.

Í kapitalísku þjóðfélagi eins og okkar eru það örfáir einstaklingar sem eiga framleiðslutækin og náttúruauðæfin, togara, báta, frystihús, verslanir, jarðir o.s.frv., en verkamaðurinn, sjómaðurinn, verksmiðjustúlkan, það er að segja þeir sem vinna við framleiðslutækin, eiga engin. Út frá þessu skiptist þjóðfélagið líka í stéttir, verkalýðsstétt sem engin framleiðslutæki á en fyllir flokk launavinnumanna og kapitalista sem allir eiga framleiðslutæki af einhverri gerð og kaupa vinnuafl til að vinna fyrir sig að framleiðslunni.

Í sósíalísku ríkjunum er þessu á annan veg farið, þar eru það framleiðendurnir sjálfir sem eiga framleiðslutækin og náttúruauðæfin. Þar hefur einkaeignin verið afnumin, en framleiðslutækin og landið, gögn þess og gæði, er orðið eign alls þjóðfélagsins. Þar eru því ekki lengur til neinar sérstakar stéttir eignamanna og eignalausra. Allir verða á einhvern hátt að vinna að sameiginlegri framleiðslu alls þjóð félagsins og hver leggur það af mörkum sem hann er fær um.

Í auðvaldsþjóðfélaginu vinnur verkamaðurinn ekki aðeins fyrir sínum eigin launum, verðmæti vélanna og hráefnisins, sem notað er til framleiðslunnar, heldur skapar hann þar að auki afgang, sem rennur beint í vasa kapitalistans og er kallaður gróði. Vegna eignar sinnar á framleiðslutækjunum getur kapitalistinn þannig slegið eign sinni á þennan afgang sem verkamaðurinn hefur skapað með vinnu sinni. Þetta kalla kapitalistarnir að græða á framleiðslunni. Til þess að öðlast þennan gróða verður kapitalistinn að leggja út í ákveðinn kostnað í framleiðslutæki, hráefni og vinnulaun. Til þess að auka sem mest gróða sinn reynir hann því að lækka þennan kostnað. Það er þó aðeins einn kostnaðarliður sem hann getur breytt og það eru launin, hinir eru fastir, vélarnar og hráefnin. Kapitalistinn reynir því eins og hann getur að lækka launin en hækka verðið til að auka gróðann miðað við sama framleiðsluverðmæti.

## Orsök verðbólgunnar

Í krafti einkaeignarinnar á framleiðslutækjunum, hráefnunum og afurðum framleiðslunnar leitast kapitalistar auðvaldslandanna stöðugt við að auka sinn eiginn gróða. Þeir fjárfesta í nýjum og betri tækjum, framleiða meira en áður með sama vinnuafli. Þannig leitar fjármagnið þangað sem gróðinn er mestur í það og það skipti meðan aðrar framleiðslu greinar líða fjármagnsskort. Og þar sem hver kapitalisti gerir þetta út af fyrir sig án nokkurrar stjórnar, kemur að því að fjárfest verður í of ríkum mæli. Stærri og stærri hluti gróðans fer í afskriftir og vexti af nýfjárfestingum. Eina leiðin fyrir kapitalistana er að hækka verðið og þrýsta laununum niður. En þar sem þetta gerist yfir þjóðfélagið allt, fjölgar krónunum aðeins miðað við sama framleiðslumagn, gildi þeirra rýrnar og enn verður verðið á vörunum að hækka.

Í sósíalísku löndunum hefur þessi einkaeign hins vegar verið afnumin. Þar er ekki framleitt til að örfáir einstaklingar græði, heldur til að fullnægja þörfum þjóðarheildarinnar.

frh. á bls. 11

# Áburðarverksmiðjan:
# Verkalýðsforystan sundrar samstöðu verkamanna

Undanfarnar vikur hefur staðið yfir samningagerð milli ríkisins annars vegar og verkamanna og iðnaðarmanna í Áburðarverksmiðjunni hins vegar. Í þessari samningagerð hefur verkalýðsforystan, jafnt hjá iðnaðarmönnum sem verkamönnum, afhjúpað sig berlega sem handbendi auðvaldsins. Í eftirfarandi grein verður skýrt frá gangi mála í Áburðarverksmiðjunni og þeirri stöðu sem þar er komin upp (þ. 22/6).

## Hópum verkamanna att saman

Fyrir utan launahækkanir sem eru sambærilegar við launahækkanir á almennum vinnumarkaði komu verkamenn í Áburðarverksmiðjunni fram með ýmsar sérkröfur. Vaktavinnumenn komu með kröfu um breytta vaktatöflu og dagvinnumenn við sekkjun með kröfu um endurskoðun á starfsmati, og hærri laun. Laun í Áburðarverksmiðjunni eru ákveðin samkvæmt starfs mati þar sem eðli þeirrar vinnu sem menn vinna skipar þeim í launaflokk. Verkalýðsforystan (Dagsbrún fyrir hönd verkamanna) átti viðræður við verksmiðjustjórn og fulltrúa ríkisins, og lagði fram samningsdrög sem hún fyrir sitt leyti undirritaði. Samkvæmt þessum samningsdrögum áttu launahækkanir að vera sambærilegar við hækkanir á almennum vinnumarkaði, en hópum verkamanna var mjög mismunað hvað snerti sérkröfur. Verkamenn í sekkjun fengu hækkun sem nam um 15%, en vaktavinnumenn fengu engar breytingar á vaktatöflu. Tveir fundir voru haldnir um samningana, og voru þeir felldir á þeim báðum.

## Iðnaðarmönnum att gegn verkamönnum

Samningar milli ríkisins og járnsmiða og rafvirkja í Áburðarverksmiðjunni voru til í handriti og undirritaðir af formönnum viðkomandi iðnaðarmannafélaga. En það var beðið með að bera þá upp, og trúnaðarmenn undirrituðu þá ekki: Hvers vegna? Það er almennt álit meðal verkamanna að iðnaðarmennirnir hafi ætlað sér að bíða þartil verkamennirnir hefðu samþykkt sína samninga og þeir settir fastir, en koma þá á eftir og fá meira, eins og svo oft hefur komið fyrir. Vélstjórar, sem eru eins konar vaktstjórar, gerðu sérsamninga á bak við tjöldin sem fól í sér 27% launahækkun auk almennra hækkana. Þessa launa hækkun átti að fela með því að skrifa á þá aukavaktir o.þ.h.

Sú afstaða formanna iðnaðarmannafélaganna að bíða með að semja þar til verkamenn væru búnir að semja og ætla þá að koma á eftir og heimta meira er forkastanleg: Hún sýnir ljóslega að þessir menn fara algerlega eftir leikreglum auðvaldsins þar sem einum hópi verkalýðsstéttarinnar er att gegn öðrum.

## "Deildu og drottnaðu"

Þegar samningarnir voru felldir varð forysta Dagsbrúnar fokill og hótaði því að stjórn og trúnaðarráð myndi lýsa yfir verkfalli, sem yrði langt og strangt. Fyrst verkamennirnir neituðu að samþykkja það sem að þeim var rétt, var hótað að svelta þá til hlýðni.

Öll framkoma verkalýðsforystunnar í þessu máli hefur ljóslega afhjúpað hverjum hún þjónar: Með því að etja saman hópum verkamanna og iðnaðarmanna og reyna að pressa í gegn samninga sem eru hluta mannskapsins í hag en öðrum í óhag sáir hún sundrungu og óeiningu, og þjónar beint þeirri aðferð auðvaldsins til að halda verkalýðnum niðri, að deila og drottna. Samningsgerð verkalýðsforystunnar hefur orsakað togstreitu milli hinna ýmsu hópa, og þar sem áður ríkti eining er nú óeining.

frh. á bls. 11

# FINA blaðið

Fyrir nokkru kom út nýtt tölublað af FINA-blaðinu, en það er útgefið af Félagi iðnnema á Akureyri. Meðal efnis í þessu blaði er úrdráttur úr ræðu Tómasar Guðmundssonar, iðnnema, á 1. maí fundi Baráttueiningar á Akureyri. Þá er grein um verkmenntun í auðvaldsþjóðfélagi, þar sem bent er á að einokunarauðvaldið hunsar verkmenntunina í leit sinni að hámarksgróða. Þá er loks grein eftir Jón Jóhannsson um verkfallið í Slippstöðinni á Akureyri, en því máli voru gerð góð skil í síðasta tölublaði STÉTTABARÁTTUNNAR, þar sem birt var viðtal við tvo verkfallsmennina.

Allir þeir sem hafa áhuga á baráttunni í iðnnemahreyfingunni ættu að fylgjast vel með Félagi iðnnema á Akureyri, því það félag hefur haft í frammi nokkra andstöðu innan Iðnnemasambandsins. Þeir sem vilja verða sér úti um þetta nýja FINA-blað geta fengið það hjá skrifstofu Iðnnemafélagsins, Glerárgötu 28, eða í bókabúðinni Rauðu stjörnunni í Reykjavík.

-/GM

# Eitt dæmi um arðrán



**Þær prjónakonur sem hafa** prjónað þessar peysur fá ekki nema brot af því fé sem túrhestabissnissmenn moka inn fyrir sölu á þessum peysum til útlendinga.

Prjónakonur, sem taka að sér verkefni fyrir útflutningsfyrirtæki eins og Álafoss og Sambandið, eru ofurseldar svívirðilegu arðráni. Hingað til hefur Stéttabaráttan leitt kjara baráttu þeirra hjá sér. Í næstu tölublöðum munum við þó reyna að taka mál þeirra upp.

Eitt dæmi um svívirðuna - sem þó er ekki af alvarlegasta taginu - átti sér stað í kaupfélagi nokkru úti á landi. Útlendir ferðamenn gengu inn í kaupfélagsverslunina og föluðust eftir lopapeysum. Tvær konur sem voru nærstaddar heyrðu á tal þeirra og glopruðu því út úr sér að þær ættu peysur fyrirliggjandi heima hjá sér. Verslunarstjórinn bað þær endilega að sækja þær sem þær gerðu. Að því loknu fóru þær ásamt ferðamönnunum og verslunarstjóranum inn á skrifstofu hans. Þar gaf verslunarstjórin þeim konunum kvittun fyrir peysunum, 2900 kr. fyrir hverja - sem þær gátu síðan leyst út í vöruúttekt í verslun kaupfélagsins. Í sömu andrá og að þeim ásjáandi seldi hann ferðamönnunum peysurnar, á 4900 kr. hverja. Þannig varð gróði kaupfélagsins margfaldur. Lopinn sem konurnar höfðu notað kostaði þær 1000 kr. í hverja peysu (að sjálfsögðu keyptur í kaupfélaginu á smásöluverði), 2000 kr. hreinn ágóði fyrir að skrifa 2 kvittanir og vöruúttektin sem að sjálfsögðu miðaðist við smásöluverð í kaupfélagsverslununum.

Þetta er aðeins lítið dæmi en það er dæmigert.

# MFÍK dreifir blekkingum stríðspáfanna

Þótt Krúsjoff hafi safnast til feðra sinna fyrir nokkru þá leikur vofa hans enn lausum hala. Menningar og friðarsamtök íslenskra kvenna (MF ÍK) dreifa ávarpi sem inniheldur hluta af fölsunum Krúsjofs á marxismanum-lenínismanum í ávarpinu (Stokkhólmsávarpinu) er mikið tal um frið og vígbúnaðarkapphlaup um leið og "slökunarstefnunni" hans Brésnefs er þakkað fyrir "nýtt alþjóðlegt andrúmsloft, nýjar vonir, nýtt traust, nýja bjartsýni meðal þjóðanna." Ennfremur kemur hugmyndin hans Krúsjofs, um heim án vopna, skýrt fram. Aðalaefni ávarpsins er krafa um að vígbúnaðarkapphlaupið verði stöðvað enda "ógnar (það) reikistjörnu vorri enn með gereyðingu af völdum kjarnavopna."

Í öllu friðarhjalinu "gleymist" bara að geta þess að heimur án vopna er óhugsandi svo lengi sem arðrán og kúgun heimsvaldastefnunnar er við lýði. Þrátt fyrir allar þær "nýju vonir" sem MFÍK hefur bundið við slökunarstefnuna hjá Brésnef þá stendur heimurinn ekki feti nær friði og afvopnun - þvert á móti - ófriðarskýin hrannast upp. Í Sovétríkjunum er nú skortur á neysluvörum af ýmsu tagi sökum þess að risastór hluti af ríkisútgjöldunum fer til hernaðaruppbyggingar. Vopnasala Bandaríkjanna og Sovétríkjanna hefur aldrei verið með meiri "blóma". Það er heimur, grár fyrir járnum, sem nú blasir við og "slökunarstefnan" er aðeins reykský ætlað til þess að blekkja alþýðu heimsins og slæva árvekni hennar.

Tékknesku þjóðinni er nú haldið í kúgunargreip með sovéskum vopnum, en víetnamska þjóðin hlaut frelsi með vopnaðri baráttu. Það eru því ekki vopnin sem slík sem eru ógnvaldurinn - heldur heimsvaldastefnan sem notar vopnin til þess að kúga. Allt friðarhjal, sem ekki tekur mið af því að Sovétríkin eru heimsvaldaríki sem kúgar aðrar þjóðir og á í grimmri baráttu við Bandaríkin um heimsyfirráð, er marklaust.

Stokkhólmsávarpið er ekkert annað en blekkingartilraun af hálfu sósíalheimsvaldasinna og þeirra fylgifiska.

Grettir.

# Svanasöngur

Það hefur verið stórt áhyggjuefni Alþýðubandalagsins hversu ungt fólk hefur snúið baki við flokknum í stórum stíl. Þær hugmyndir sem ríkja í Alþýðubandalaginu eru auðvitað lítt freistandi fyrir alla þá sem vilja taka þátt í pólitísku starfi á annan hátt en að aðstoða við kosningar á nokkurra ára fresti Nýlega reyndi einn af rísandi framgosum AB að komast til botns í þessu máli í erindi sem hann (Svanur Kristjánsson) flutti í AB-félagi Rvíkur. Þar kennir margra grasa en skemmtilegust er lýsing hans á því fólki sem hefur skipað sér í sveitir til vinstri við AB (Reyndar neitar SK að viðurkenna að nokkuð "til vinstri" við AB fyrirfinnist). Hér er stuttur kafli úr erindi SK:

"Nú má segja sem svo, að það hafi hvort sem var ekki verið neinn ávinningur í mörgum þeirra, sem kjósa að starfa til "vinstri." Það fólk er gjarnan í leit að sálufélögum, nýrri fjölskyldu, afstaða þess er meira eða minna trúarleg. Og í sambandi við gagnrýni þessa fólks má taka það fram, að við íslenskar aðstæður er rétt að hafna hugmyndum Leníns um útvalinn hóp samsærismanna sem "færir" verkalýðnum byltinguna."

Ekki er nú öll vitleysan eins, þótt margar séu þær keimlíkar, varð mér að orði við lestur þessarar "skilgreiningar." Kannast nokkur þeirra sem hefur raunverulega kynnt sér kenningar Leníns við þessa kenningu um "hóp samsærismanna sem "færir" verkalýðnum byltinguna"? Örugglega enginn - aðeins þeir sem hafa kynnt sér rangfærslur endurskoðunarsinna og krata á kenningum Leníns, og tekið þær alvarlega, geta látið svona vitleysu frá sér fara. Svanur er einn þeirra.

Kannast nokkur við fólk sem tekur trúarlega afstöðu til kenninga Leníns um sósíalísku byltinguna? Svanur getur í krafti fáfræði sinnar slett fram svona þvaðri um það fólks sem hefur séð í gegnum AB, en það mun ekki færa hann nær svarinu sem hann leitar að.

Annað vandamál sem Svanur glímir við er lítil þátttaka verkafólks í starfi AB. Hann upplýsir okkur um að 72% frambjóðenda séu kennarar, skólastjórar, rithöfundar, blaðamenn, framkvæmdastjórar og forstjórar, en aðeins 10% verkafólk. Þetta eru athyglisverðar upplýsingar um "verkalýðsflokkinn," en ætti ekki að koma neinum á óvart. Svanur sneiðir vandlega hjá því að skilgreina sjálfa stefnu flokksins og leita svaranna þar. Hann lýsir því yfir að "sósíalískur flokkur verður að varðveita sérkenni sín, annars á hann það á hættu að úrkynjast og verða að kosningamaskínu," síðan tekur hann undir þá gagnrýni á AB að "þar sé um of einblínt á þingstarf og kosninga fylgi"... "ákvarðanir eru í reynd teknar annarsstaðar - í þingflokki, af ráðherrum ef flokkurinn á aðild að stjórn..." Ef Svanur væri sjálfum sér samkvæmur þá dygðu þessi sérkenni Alþýðubandalagsins til þess að sannfæra hann um að þar er kosningamaskína á ferð. En í stað þess hyggst hann bæta úr helstu göllum AB og "tryggja þar sósíalismann í sessi." Sá sem er jafn fáfróður um verk helstu frumkvöðla sósíalismans og Svanur er vel til þess fallinn að lífga kalinn kvist.

Grettir



Margt misjafnt hefur verið sagt um Lenín og verk hans - en pótintátar Alþýðubandalagsins telja sig geta gagnrýnt hann og hafnað hugmyndum hans án þess að hafa fyrir því að kynna sér kenningar hans og ævistarf.

## Rauður vettvangur

Eftir lestur greinarinnar "Vanskil á orlofsfé" vil ég gera eftirfarandi athugasemd. Þar stendur m.a. Verkafólk, orlofið er hluti af laununum og því á atvinnurekandanum ekki að líðast að svíkjast um að borga það. Hafið samband við skrifstofu fagfélags ykkar ef um vanskil er að ræða."..

Þetta er nefnilega ekki svona einfalt í raun. Þannig er mál með vexti að atvinnurekandinn sem ég vann hjá árið 1974 hefur enn ekki borgað til póststofunnar orlof mitt og virðist ekki vera á þeim buxunum að gera það í bráð. Hef ég margoft haft samband við lögfræðing póstsins en hann getur ekkert gert í þessum málum, og það virðist Dagsbrún líka um megn, því margoft hef ég rætt við hlutaðeigandi aðila þar, en þeir virðast ekkert geta gert, eða þá að þeir vilja ekkert gera.

Kerfið virðist vera þannig að ef atvinnurekendur eru nógu kaldir að hunsa þetta þá komast þeir alveg upp með að borga ekkert orlof. Svo er það nú helv... hart að fá kannski peningana ári seinna sökum hinnar miklu óðaverðbólgu sem hér geysar eins og farsótt

Að lokum við ég lýsa ánægju minni með þetta tbl. Stéttabaráttunnar (11. tbl), fyrir það hve skelegglega er á málum haldið er varða hagsmuni verkalýðsins, má þar nefna greinar eins og "Gegn vinnulöggjöf auðvaldsins", "ASÍ-forystan er sátt við kjaraskerðingarnar" "Verkfall iðnnema á Akureyri" "Bændur og verkalýður" o.s.frv.

Það er vonandi að Stéttabaráttan haldi uppteknum hætti og láti það sjást æ betur að það er eina blaðið sem raunverulega berst fyrir málefnum verkalýðs og vinnandi alþýðu og að Kommúnistaflokkur Íslands m-l er eini flokkurinn sem berst fyrir verkalýðinn og framgangi stéttabaráttunnar, sem óneitanlega mun leiða til þess að verkalýðurinn mun brjóta á bak aftur kúgun auðvaldsins og reisa alræði öreiganna.

Félagar, verkamenn tökum höndum saman í þeirri baráttu að efla KFÍ/ML, því hann er eina aflið sem getur leitt baráttuna til sigurs.

/ghr

# ÚREINU ÍANNAÐ

Í 3. tbl. Verkalýðsblaðsins, málgagni EIK(m-l), eru kostulegar upplýsingar um bókabúð KFÍ/ML, Rauðu stjörnuna. M.a. er það sagt beinum orðum að búðin hafi haft "stórútsölu á blöðum, bókum og ritlingu, frá áróðursmeisturum Kremlarbænda." Tilefni stórútsölunnar var að sögn Vbl. 25. þing endurskoðunarsinnanna í Kreml. Við lestur greinarinnar kemur í ljós að "stórútsalan" samanstóð af örfáum bókum.

Í lok greinarinnar segir: "...hvernig í ósköpunum samræmist það þá þessu markmiði (þ.e. að selja efni sem tileinkað er baráttu verkalýðsins) að breiða út allar þessar lygar og falsanir á marx-lenínismanum, sem er svo áberandi stór hluti af söluefni búðarinnar."

Undirritaður skorar á alla þá sem eiga þess kost að koma í Rauðu stjörnuna og kynnast af eigin reynslu söluefni búðarinnar og sjá hversu "áberandi stór hluti af söluefninu" eru bækur, blöð og ritlingar sem ekkert baráttufólk má láta hjá líða að kynna sér.

Það heyrist ekki mikið frá KSML(b) meðal NATO-andstæðinga. En þó brugðu þeir undir sig betri fætinum daginn sem Keflavíkurgangan var. Reyndar ekki til þess að ganga með fjöldanum sem gekk í göngunni - heldur til þess að dreifa flugblaði á útifundinum á Lækjartorgi. En eins og máltækið segir, þá sveltur sitjandi kráka, sökum sjálfskipaðrar einangrunar sinnar frá fjöldabaráttunni þá fóru (b)éararnir á mis við aðalvígorð aðgerðanna. Eins og allir vita þá eru höfuðvígorðin í allri baráttu NATO-andstæðinga núna ÍSLAND ÚR NATO - HERINN BURT (þrátt fyrir tilraunir trottanna til að breyta þeim í Gegn herstöðvum - gegn Nato).

Þessi vígorð voru borin í göngunni - þau glumdu við í kór sem þúsundir tóku þátt í. En allt kom fyrir ekki - KSML (b) missti af lestinni og dreifði blaði sínu þar sem eftirfarandi "gagnrýni" var sett fram:

"Kjörorð þeirra Keflavíkur göngu sem nú er nýkomin í bæinn voru: Gegn herstöðvum - Gegn NATO. Þessi kjörorð beinast raunverulega ekki gegn herstöðinni og veru Íslands í NATO. Það fyrra (Gegn herstöðvum) er ekki annað en friðarhjal á móti herstöðvum almennt án tillits til í hverra þágu þær eru. Með því að taka undir það ræðst maður einnig gegn vörnum sósíalísku ríkjanna, sem verkalýðurinn hefur komið sér upp til að verja alræði sitt, og frelsisbaráttu þriðja heimsins. Hins vegar er kjörorðið: Herinn burt rétt, það beinist gegn þeim fulltrúum heimsvaldastefnunnar sem sitja suður á Miðneðsheiði. Hitt kjörorðið (Gegn NATO) segir nákvæmlega ekki neitt hvernig við hér á Íslandi eigum að berjast gegn NATO. Hins vegar með því að setja fram kjörorðið Ísland úr NATO, og berjast fyrir framkvæmd þess, gerum við það sem í okkar valdi stendur til að veikja þessa blokk heimsvaldasinna."

Svo mörg voru þau orð. En kæru vinir í KSML(b), hvernig stendur á því að þið takið ekki eigin orð alvarlega, "... og berjast fyrir framkvæmd þess..." stendur í dreifiritinu og þegar þúsundir alþýðufólks rís upp til baráttunnar þá krossleggið þið hendurnar á innantómu brjóstinu. Þið voruð ekki með í þeim aðgerðum sem skipulagðar hafa verið að undanförnu undir vígorðunum ÍSLAND ÚR NATO - HERINN BURT.

Það er velþekkt staðreynd að mesti hávaðinn kemur úr tómum tunnum. Þannig er því varið í pólitíkinni oft og tíðum, þeir sem ekkert hafa að leggja til málanna (nema gleði og stolt yfir eigin skrifum) eru því fyrirferðarmeiri þegar þeir komast á prent. Þannig fór nýverið fyrir foringja KSML(b) þegar hann ætlaði að skýra út afstöðu hópsins til stofnunar KFÍ/ML. Fyrirsögn greinarinnar er engin smáyfirlýsing: "Stofnun "K"FÍ skrípaleikur án hliðstæðu", en innihald greinarinnar er magurt. Auk tilvitnanafalsana er greinin samansett af upphrópunum s.s.: "Sá misliti og misvitri hópur aðallega skólafólks sem skreytir ofangreind endurbótasamtök" "í þvílíkri hyldýpisgjá myrkurs og rökleysis, sem ríkir hjá þessum samtökum, þar sem einstaklingar flæða um stefnulausir og áttavilltir" "Þessar sálir í "K"FÍ" "í hina sökkvandi skútu "K"FÍ"....

Þessi mikla notkun á sterkum lýsingum er ámátleg tilraun til þess að reyna að breiða yfir eigið skipbrot - það er ekki snefill af marxískri afstöðu í allri greininni. Og slík er afstaða KSML(b) til Kommúnistaflokks Íslands m-l, þ.e. borgaraleg.

Gorgeir

# Aðferðir gegn samstöðu launþega hjá IBM

1. Launapólitík

Starfsmönnum hjá IBM er greitt út kaup í lokuðu umslagi Mönnum er bannað að ræða um kjör sín á milli. Launagreiðslur fara ekki eftir opinberum og umsömdum töxtum. Engir samningar gilda um kjör starfsmanna hjá fyrirtækinu. Laun manna eru ákveðin eftir óyfirlýstum reglum, sem yfirmenn fyrirtækisins hafa.

Á þann hátt getur fyrirtækið borgað tryggum starfsmönnum offjár en vanrækt kauphækkanir hjá þeim sem það vill losna við.

Loks skal geta þess, að mönnum er tilkynnt um kauphækkanir, eins og um gjöf af hálfu fyrirtækisins væri að ræða. Menn venjast því að líta á fyrirtækið sem eins konar góðlátlegan föður.

2. Verðlaunakerfi

Verðlaunakerfi IBM er byggt á þeirri sálfræðilegu kenningu um að gjöf, sem kemur manni á óvart, hafi margfalt meiri hvetjandi áhrif en gjöf, sem menn eiga von á.

Verðlaunakerfi IBM eru ekki hugsuð sem uppbót á kjör manna. Þau eiga að hvetja menn til dáða fyrir fyrirtækið og innprenta í þá afstöðu fyrirtækisins í ýmsum málum.

Á hverju ári, er t.d. 5-7 yfirmönnum og/eða tryggum undirmönnum í fyrirtækinu boðið til sólarlanda á ráðstefnu á vegum IBM, þar sem þeir hitta starfsmenn IBM frá ýmsum löndum og hlusta á ræðuhöld helstu forstjóra þessa fjölþjóðahrings. Þar búa menn á bestu hótelum, borða og drekka í bestu veitingahúsum og fá auk þess tækifæri til að heimsækja spilavíti. Á þeim stað treysta starfsmenn IBM bönd "IBM-fjölskyldunnar", eins og forstjórar IBM gjarnan kalla starfsmenn "sína" og fjölskyldur.

3. Starfsmannafélagið

Það tíðkaðist í tíð nasista í Þýskalandi, að fyrirtæki stofnuðu "handa" starfsfólkinu og fjölskyldum þeirra starfsmannafélög, "þeim til ánægju". Markmið fyrirtækjanna var að sjálfsögðu það, að hafa ekki aðeins eftirlit með starfsmönnum á vinnutíma, heldur að fylgjast með og stýra tómstundastarfsemi þeirra á þann hátt, sem fyrirbyggir þróun samstöðu við stéttarbræður í öðrum fyrirtækjum.

Þessa hefð hefur bandaríski auðhringurinn IBM yfirtekið. Það er nefnilega opinber stefna þessa fjölþjóðahrings að "stuðla að og hafa umsjón með tómstundastarfsemi, sem stjórn fyrirtækisins samþykkir í þágu starfsmanna og fjölskyldna þeirra." Þetta leynimarkmið, sem forstjórar IBM erlendis hafa mótað og fyrirskipað, endurspeglast í lögum þess starfsmannafélags, sem IBM hér hefur stofnað "í þágu starfsmanna og fjölskyldna þeirra."

Í þessum lögum kemur m.a. fram: "Stjórn félagsins skal gera starfs- og fjárhagsáætlun komandi árs (...) og skal áætlunin hljóta samþykki forstjóra IBM."

Nokkrir starfsmenn hafa reynt að fá ítök fyrirtækisins í starfsmannafélaginu afnumin. M.a. hefur nefnd starfsmanna skilað drögum að nýjum lögum þar sem ítök fyrirtækisins verða minnkuð til muna, þótt því verði gert kleift að hafa eftirlit með starfseminni.

En þar sem fyrirtækið hefur stutt þessa tómstundastarfsemi með einhverjum fjárframlögum, hefur það notað aðstöðu sína í mótun fjárlaga félagsins til að kúga starfsmenn til hlýðni. Fyrirtækið hefur nefnilega hótað að hætta öllum fjárframlögum, verði ítök þess ekki tryggð. Þetta hefur nægt til að koma í veg fyrir breytingu laganna í lýðræðisátt enda starfsmönnum annara um "mútur" heldur en um að standa uppréttir. Nokkrir "línumenn" í fyrirtækinu vinna beinlínis gegn eigin hagsmunum. Þeir telja æskilegt að fyrirtækið hafi hönd í bagga með starfsemi þessa félags, til þess að koma í veg fyrir hugsanlega þróun félagsins í átt að stéttarlegri samstöðu starfsmanna. Þeir treysta ekki félögum sínum til að ráða tómstundastarfsemi í eigin þágu.

Því er hins vegar ekki hægt að neita, að framferði fyrirtækisins í þessu máli hefur opnað augu margra starfsmanna fyrir því, hvað vaki eiginlega fyrir IBM hér og í öðrum þáttum starfsmannapólitíkurinnar.

4. Eftirlit með starfsmönnum

Á hverju ári á hver yfirmaður viðræðufund við hvern undirmann, þar sem þeir eiga að ræða opinskátt um liðna árið og um framtíðaráætlanir hvers og eins.

Við og við er gerð skoðanakönnun meðal starfsmanna um afstöðu þeirra gagnvart fyrirtækinu og vinnunni. Þótt skoðanakönnun sé talin nafnlaus, trúa fæstir að fyrirtækinu sé ókleift að rekja einstök svör til einstakra manna.

Við gerum ennfremur ráð fyrir, að yfirmenn IBM muni leita uppi þá starfsmenn, sem hafa látið ofangr. upplýsingar í té við Stéttabaráttuna. Fyrirtækinu er nefnilega meinilla við opinberar umræður um þessi viðkvæmu mál.

Stéttabaráttan kallar því á starfsmenn IBM að láta fyrirtækið ekki kúga sig til eins eða neins í þessum efnum. ÞAÐ ER EKKI AÐEINS RÉTTUR, HELDUR BEINLÍNIS SKYLDA HVERS LAUNÞEGA, HVORT SEM HANN VINNUR HJÁ ERLENDUM EÐA INNLENDUM ATVINNUREKANDA AÐ SKÝRA STÉTTARBRÆÐRUM SÍNUM UMBÚÐALAUST FRÁ SAMSKIPTUM VIÐ ATVINNUREKANDANN. PUKUR UM SLÍK MÁL ÞJÓNAR EINGÖNGU HAGSMUNUM ATVINNUREKENDA OG ER Í BEINNI ANDSTÖÐU VIÐ HEILDARHAGSMUNI LAUNÞEGA.

-/Stéttvísir starfsmenn

> Við bjóðum þig innilega velkominn til samstarfs í IBM fjölskylduna, og erum þess fullviss, að gagnkvæm gleði og árangur náist í samstarfinu um ókomin ár.
>
> Í þessari litlu bók eru nokkrar gagnlegar upplýsingar um IBM heimsfyrirtækið, en þú ert nú einn mikilvægur hlekkur í þeirri miklu keðju. Við skulum muna, að keðja er aldrei sterkari en veikasti hlekkurinn.
>
> Bókin gefur einnig upplýsingar um réttindi þín og skyldur gagnvart IBM, sem gilda fyrir alla starfsmenn þess.
>
> Þegar þú nú hefur lesið þessa bók vandlega, en óskar eftir nánari upplýsingum, ert þú ávallt velkominn til að ræða um það við þinn næsta stjórnanda eða mig, og er okkur ánægja að skýra vafaatriðið.
>
> Með vinsemd og virðingu,
>
> Ottó A. Michelsen.

## 3. tbl. RÆ komið út

Nú er 3ja tbl. Rauðrar æsku komið út. Efni þessa tbl. er mjög fjölbreytt. Má þar m.a nefna greinar eins og: Um atvinnuleysi ungs fólks, Yfirburðir sósíalísks hagkerfis Allar deildir hafa rætt kjörorð miðstjórnar og Ævintýri atvinnuleysingjans, sem er smásaga eftir Halldór Stefánsson. Birtist sú saga fyrst í Rauða fánanum, sem Samband ungra kommúnista gaf út á 4ða áratugnum. Í blaðinu er einnig ljóðið Manifiesta eftir Victor Jara, sem ort er á íþróttaleikvanginum í Chile skömmu áður en hann var myrtur.

Ritnefnd Rauðrar æsku vill hvetja allt fólk sem áhuga hefur á að kynna sér blaðið og pólitík samtakanna að verða sér úti um það. Blaðið fæst í Rauðu stjörnunni, Lindargötu 15, en einnig er hægt að gerast áskrifandi að því. Kostar áskrift aðeins 1000 kr. og verður stefnt að því að gefa blaðið út mánaðarlega, það sem eftir er ársins.

Fréttatilk. frá ms RÆ

PÓLSK ALÞÝÐA...
frh. af bls. 9

aftur eftir mikla bardaga, og voru gerðar ráðstafanir til að "tryggja" að þetta gæti ekki gerst aftur. Ýmsir forystumenn flokksins voru "hreinsaðir," og verðstöðvun sett á. Vopnuð gæsla hefur síðan verið um marga stærstu vinnustaði Póllands. Um miðjan júní sl. var verðstöðvuninni aflétt. Það var gert til að "nota verðhækkanir til að örva viðskipti í landinu. Pólskur verkalýður svaraði þessu með verkföllum, verksmiðjutökum og öðrum andófsaðgerðum, því hann sá í gegnum blekkingarvaðal flokksforystunnar. Sökum styrks verkalýðsstéttarinnar neyddist borgarastéttin til að halda verðstöðvuninni áfram. En pólskur verkalýður hefur sýnt að hann veit að landinu stjórnar skrifræðisborgarastétt með tilstuðlan Sovétríkjanna, og hann á eftir að segja síðasta orðið

# Samfylking um alþýðumenningu

Að undanförnu hafa verið í gangi umræður um stofnun samfylkingar um alþýðumenningu að hausti komanda. Það er álit þeirra sem að þessu standa að alþýðumenning á Íslandi sé í hættu bæði vegna menningardrottnunar erlendra stórþjóða og íslenskrar borgarastéttar. Einnig þjóni menningarframleiðsla þeirra á engan hátt baráttu vinnandi alþýðu fyrir hagsmunum sínum, heldur feli baráttumál hennar og orsakir undirokunar.

Til höfuðs þessari menningardrottnun er ætlunin að stofna samfylkingu um alþýðumenningu og reyna að stuðla að eflingu alþýðumenningar, sem vopni í stéttabaráttu vinnandi fólks. - Samfylkingin hefur sett sér þau markmið að varðveita, endurvekja og efla alþýðumenningu á Íslandi og kynna hana, hvar sem þess gefst kostur.

- Samfylkingin telur nauðsynlegt að sýna fram á raunverulegt eðli alþýðumenningar, þeirrar menningar sem sprottin er úr daglegu lífi alþýðunnar og eflir baráttu hennar fyrir bættum lífskjörum og jafnrétti.

- Samfylkingin vill hvetja alþýðufólk til aukinnar tjáningar í söng, hljóðfæraleik, kvæðum leikþáttum, sögum, myndgerð o.s.frv. og efla samstöðu þess og félagslíf.

- Samfylkingin ætlar að afhjúpa og berjast gegn menningardrottnun innlendra sem erlendra burgeisa, menningu sem framleidd er í gróðaskyni og er beinlínis til þess fallin að eyðileggja vaxtarskilyrði íslenskrar alþýðumenningar.

- Jafnframt er markmið samfylkingarinnar að stuðla að aukinni þekkingu alþýðunnar á þjóðfélaginu, þannig að hún verði meðvitaðri um stöðu sína í því, og um raunhæfar baráttuleiðir til að skapa þjóðfélag við sitt hæfi.

Þátttaka í samfylkingunni er heimil öllum sem vilja og geta unnið virkt að framgangi þessara markmiða og eftir þeirri stefnu sem þau móta. Samfylkingin er ekki tengd neinum ákveðnum stjórnmálaflokki og er öll þátttaka bundin einstaklingsaðild.

Nokkur starfsemi hefur þegar farið af stað og hefur m.a. verið gefinn út bæklingur sem inniheldur stefnuskrárdrög og greinargerðar um menningu og listir. Einnig hafa farið af stað 3 starfshópar. En hugmyndir um fleiri hópa og aukið starf eru margar og óþrjótandi verkefni liggja fyrir. T. d. er fyrirhugað að halda menningarvöku einhvern tíma á næsta hausti í kjölfar stofnfundarins.

Takmark samfylkingarinnar er að styðja alþýðumenningu með ráðum og dáð, skapandi menningu þar sem hver maður hefur sinn skerf fram að leggja og hafnar því hugarfari sem felur í sér að fjöldinn skuli sitja aðgerðarlaus og láta fáa útvalda mata sig á list.

Samfylkingin skorar því á fólk að kynna sér bæklinginn eða koma til liðs í starfi.

Upplýsingar má fá hjá:
Þorvaldur Árnason, Njálsgata 90, s: 14825.
Skúlína Kjartansdóttir, Bólstaðarhlíð 54, s: 86648.
Unnur Jónsdóttir, s: 20958.




**Barátta gegn úrkynjaðri auð**valdsmenningu er ómissandi þáttur í allri baráttu gegn heimsvaldastefnu og arðráni. **Baráttan á sviði menningarmála** helst í hendur við fjöldabaráttu á öllum öðrum sviðum og þjónar sama markmiði. Alþýðuleik**húsið á Akureyri er gott dæmi** um það sem koma skal.

# Kínversk alþýða er besti kennarinn um byltinguna

Arnþór Helgason fór á síðasta ári til Kína ásamt þremur öðrum og ferðuðust þeir víða um Kína. Þeir voru þangað komnir til að afla sér sem víðtækrastrar þekkingar um kínversku þjóðina, sögu hennar, menningu og viðhorf. Í eftirfarandi viðtali, sem tekið var fyrir nokkru síðan, segir Arnþór okkur frá kynnum sínum af Kína og alræði öreiganna. Viðtalið er nokkuð stytt frá upprunalegri mynd þess.



Arnþór og félagar með kínverskum vinum sínum.

Stb.: Hvernig ferðuðust þið til Kína?

- Við ferðuðumst með lest alla leið frá Kaupmannahöfn og í gegnum Rússland til Peking. Við skiptum um lest í Moskvu, og dvöldum þar eina nótt. Þá fengum við tækifæri á að kynnast borgarbragnum. Borgin var ákaflega snyrtileg og viðmót almennings þýtt, en nokkuð bar á drykkjuskap á götum, en sovétmenn hafa hins vegar haldið því fram að búið væri að útrýma honum í landinu. Það sem setti einna stærstan blett á Sovétríkin að mínu mati var sá kvörtunartónn sem einkenndi marga íbúa landsins, enda var það áberandi hvað vörurnar voru lélegar, þá sérstaklega landbúnaðarvörur.

Stb.: Var mikill verðmunur í Kína og Sovétríkjunum?

- Já, það var gífurlegur verðmunur. Í Sovétríkjunum var verðlag í meðallagi miðað við það sem við þekktum, en í Kína var það fyrir neðan allt. Það var einnig áberandi hvað vörur voru miklu betri og vandaðri í Kína.

Stb.: Hvert var viðhorf sovétmanna til Kína og svo öfugt?

- Ungt fólk í Sovét var mjög tortryggið í garð kínverja og virtist gera sér mjög óljósar hugmyndir um Kína og hvað væri að gerast þar, en eldra fólkið virtist hafa vinsamlegri afstöðu til kínverja. Kínverjar hins vegar voru mjög tortryggnir gagnvart sovétmönnum og að mér virtist hræddir við þá! Þeir sögðust ekki geta treyst sovétmönnum meðan þeir iðkuðu sósíalheimsvaldastefnu. Þeir væru kommúnistar í orði en ekki á borði. Það sæist á því að þeir skreyta úthöfin með herskipum og hugsa ekki um annað en eigin hagsmuni í erlendum ríkjum. Þeir telja að sovétmenn hafi sýnt bandalagsríkjum sínum og jafnvel vestur-evrópuríkjum yfirgang. Af þeim orsökum yrðu íslendingar að hugsa sig tvisvar um áður en þeir tækju ákvarðanir í alþjóðamálum, sem gætu eflt sovéska hagsmuni á Norðurlöndum.

Stb.: Hvaða afstaða kom fram hjá kínverjum til landhelgismálsins?

- Kínverjar hafa stutt okkur í 200 mílna útfærslunni og bentu þeir hvað eftir annað á að í þessu máli ættu íslendingar samleið með löndum þriðja heimsins, því sú auðlindabarátta sem við eigum í við breta er að mörgu leyti hliðstæð baráttu olíuríkjanna við vestræn ríki. Við eigum okkar lífshagsmuni undir fisknum komna, og það sem meira er vert er að við getum e.t.v. varið þennan litla fisk sem eftir er og aukið hann og þannig stuðlað að aukinni matvælaframleiðslu í heiminum. Hvað varðar kínverja sjálfa ætla þeir ekki að færa út landhelgi sína í náinni framtíð, þar sem það er að mörgu leyti óhentugt vegna legu landsins.

Stb.: Svo við snúum okkur nú að ferð ykkar um Kína: voru ferðir ykkar fyrirfram ákveðnar eða réðuð þið sjálfir hvert var farið?

- Hérna heima höfðum við borið fram ákveðnar óskir og var þeim framfylgt að öllu leyti. Þegar við komum til Kína var lögð fyrir okkur dagskrá í stórum dráttum, og máttum við gera breytingar á henni. Voru þær breytingar aðallega í þá átt að við fengum fleiri tækifæri til að kynnast kínverskum almenning. Komum við inn á fjögur heimili og eyddum töluverðum tíma í að spyrja fólkið spjörunum úr.

Stb.: Urðuð þið varir við fátækt eða ríkidæmi á ferð ykkar og hvernig voru lífskjör almennt?

- Við urðum hvorki varir við ríkidæmi eða fátækt. Meðallaun manns eru í kringum kr. 4800 á mánuði. Af því, ef hann býr í sambýlishúsi, þarf hann að borga um 1200 kr. í mat, ca. 160 kr. í húsaleigu og annað eins í rafmagn. Klæði eru mjög ódýr, nankinsföt kínverja kosta frá 1600-2000 kr. Í kínverskri fjölskyldu vinna bæði hjónin úti, og hafi þau foreldra sína á framfæri fá þau ellistyrk, þannig að ráðstöfunarfé fjölskyldu getur verið frá 12000 og upp í 15000 kr. á mánuði.

Stb.: Býr fólk aðallega í leigu húsnæði?

- Í borgum, en víða upp til sveita á fólkið húsin sjálft. Fjölskyldur hjálpast þá við að reisa húsin, en í Kína er mikil áhersla lögð á samhjálp. Strax á barnaheimilum er börnum uppálagt að styðja hvert annað, og er því komið inn í leiki þeirra.

Stb.: Hvernig er uppeldinu almennt háttað á barnaheimilum?

- Leikir barnanna eru allir starfræns eðlis, og meginuppistaðan í þeim er að tengja þá atvinnulífinu. Mikilvægur hluti af uppeldinu á kínverskum barnaheimilum er að fá fyrrverandi þræla frá Tíbet, verkamenn hermenn eða bændur í heimsókn og þeir beðnir um að segja frá lífskjörum sínum fyrir frelsun og eftir. Er þetta mjög sterkt uppeldistæki, Síðan er farið með börnin í verksmiðjur og þeim sýnt hvernig þar er unnið, og það er farið með börnin út í sveit á haustin og þeim leyft að tína hismið af ökrunum. Börnin eiga sína eigin matjurtagarða á heimilunum þar sem þau fylgjast með ávöxtum jarðarinnar. Í hverjum skóla er lítil verksmiðja. Þar byrja börnin þegar þau eru 6 - 7 ára gömul. Þess má geta að þegar börnin byrja að læra smíði þá smíða þau litla póstkassa sem póstþjónustan getur notað. Þá finna þau að þau eru að gera gagn.

Stb.: Hvernig er með skólagöngu eftir menntaskóla?

- Eftir að menntaskólanámi lýkur verða menn að starfa úti á landsbyggðinni í a.m.k. tvö ár. Síðan er hægt að kjósa þá til náms í háskóla. Það er nú nokkuð misjafnt hvernig þessi kosning fer fram en mér skilst að það sé reynt að láta hagsmuni heildarinnar og einstaklingsins fara saman. Ef einhver nemandi hefur sýnt mikla hæfileika á einhverju sviði atvinnulífsins, hafa vinnufélagar hans rétt til að kjósa hann til háskólanáms, en menntaskólarnir eru ekki lykillinn að háskólanum eins og hér. Þeir hafa verið opnaðir almenningi, t.d. fyrir reyndum verkamönnum í vélaiðnaði. Kínverjar segja að þeir þurfi reyndar hugmyndafræðilega undirstöðu, en það tekur ekki svo langan tíma að tileinka sér hana. Það sem meginmáli skiptir er að reynslan í starfi er fyrir hendi. T.d. hefur vélsmiður sem unnið hefur í vélsmiðju í 15-20 ár miklu meira vit á samsetningu vélar en maður sem drifinn er í menntaskóla og þaðan í vélaverkfræði í háskóla. Kínverjar leggja mikla áherslu á samtengingu náms og starfs.

Stb.: Hvernig er stjórn og eignaraðild háttað í verksmiðjum og fyrirtækjum?

- Annars vegar eru samvinnufyrirtæki sem almenningur á og hins vegar ríkisrekin fyrirtæki. Stjórn fyrirtækjanna er þannig háttað að starfsmennirnir koma saman og kjósa sér forystusveit, eða svokallaða byltingarnefnd. Menn sitja í þessari nefnd svo lengi sem þeir þykja hæfir til þess. Nú, reynist einhver maður vera einskis nýtur er hann gagnrýndur af öllum starfsmönnum fyrirtækisins, og hann settur af ef ekki tekst að snúa honum til betri vegar. Þannig virkar lýðræðið í smæstu jafnt sem stærstu einingum.

Í verksmiðjunum fannst mér **ríkja ákaflega skemmtilegur** andi, menn höfðu það greinilega á tilfinningunnni að þeir voru að gera gagn. Allir tóku þátt í endurskipulagningu véla og tækja, og söfnun hugmynda um betri framleiðslu.

Stb.: Var einhver launamunur í verksmíðjunum?

- Ég held að hann sé sáralítill, og fari þá eftir starfsreynslu og ábyrgð. En sýni maður framúrskarandi árangur í starfi þá fær hann launað fyrir það. Margir vesturlandabúar halda því fram að einstaklingsframtakið sé heft í Kína. En ég get ekki séð að það sé neitt verra í sjálfu sér að vinna að heildarhagsmunum með sínu einstaklingsframtaki en að hugsa fyrst og fremst um sjálfan sig.

Stb.: Hvernig er fyrirkomulagið í kommúnunum?

- Kommúna nær yfir ákveðið landssvæði, og er efnahagsleg heild, sem skiptist síðan niður í verkdeildir. Landssvæðinu er skipt í nokkrar framleiðsludeildir - hver er eins konar þorp - og hverju þorpi svo skipt í smærri framleiðsluhópa. Eignaskiptingin er þannig að kommúnan á u.þ.b. 10% framleiðslutækja, framleiðsludeildin 20%, og framleiðsluhóparnir 70%. Kommúnan selur síðan ríkinu þann hluta framleiðslunnar sem hún þarf ekki til eigin nota.

Reynt er að gera hverja kommúnu sem sjálfstæðasta og sjálfri sér næga um nauðsynjar, **koma á fót viðgerðar**iðnaði, eða þjónustuiðnaði. En það fer vitaskuld nokkuð eftir landskilyrðum hvað ræktað er og framleitt.

Stb.: Hver er staða konunnar í Kína?

- Það er vitað að staða konunnar var afar slæm í gamla Kína, og var hún nánast einskis virði. Karlmennirnir upphugsuðu alls konar dynti og duttlunga til að fullnægja hégómakröfum sínum, samanber það að konur áttu að vera með litla og granna fætur. Enn má sjá konur sem voru fyrir því óláni í æsku að fætur þeirra voru reyrðir. Fæturnir eru nú svo uppburðarlitlir að konurnar eiga mjög erfitt um gang. Þetta eru leyfar keisaradæmsins og bera aðlinum ekki fagurt vitni. Nú er markvisst unnið að því að konur geti komist út í þjóðfélagið sem nýtir atvinnuþegnar. Uppsetning barnaheimila er m.a. liður í því. Konur fá sömu laun og karlmenn og geta þær komist fyrr á eftirlaun, eða um 50-55 ára.

Stb.: Er fólki ekki frjálst að vinna lengur?

- Jú, en kínverjar álíta að þegar þessum aldri er náð er fólk miklu nýtara fyrir annað, eins og ýmis konar leiðbeiningarstörf. Til dæmis vinnur margt eftirlaunaverkafólk á Maó Tse-tung fræðsluskrifstofunum, en það eru stofnanir sem verkamenn hafa komið á fót víða um land til að tryggja að skólarnir haldi tengslum við atvinnulífið. Þá á eftirlaunaverkafólk gjarnan sæti í byltingarnefndum skólanna ásamt nemendum kennurum og starfsliði skólanna.

Stb.: Er lítið um það að gömlu fólki sé troðið inn á elli heimili eins og hér er gert?

- Já, gamalt fólk er látið búa innan um almenning, og blanda geði við unga fólkið. Eins er með blint fólk, það er ekki látið búa á blindraheimilum, því kínverjar segja að það sé nauðsynlegt að það búi innan um almenning, þannig að það skapist betri tengsl milli þessara hópa.

Stb.: Eru drykkjuvandamál í Kína?

- Annar túlkurinn minn sagðist aldrei hafa séð alkóhólista. Kínverski hátturinn á því að drekka er að dreypa á glasi öðru hverju þannig að menn geta setið með lítið staup milli handanna langa stund enda eru vín notuð í Kína í allt öðrum tilgangi en hér. Drykkjulæti á götum úti eru ekki til og við sáum aldrei drukkinn mann. Eiturlyfjaneysla er einnig óþekkt, nema e.t.v. í Shanghai, en þar hefur að mestu tekist að uppræta hana með félagslegum aðgerðum og fræðslu, enda vitum við það

**Frh. á bls. 11**



**Verkamennirnir í verksmiðjunum taka þátt í skipulagningu framleiðslunnar, og stjórnun verksmiðjunnar.**

# „ANDSTAÐA ÞJÓÐVILJANS GEGN KÍNA ER SPROTTIN AF ÞJÓNKUN HANS VIÐ KREML"

**Kristján Guðlaugsson hefur** verið formaður KÍM undanfarin tvö ár, og átt mikin þátt í því að rífa félagið upp úr þeirri ládeyðu sem það var í á tímabili. Hann er nú á leið til Kína í boði kínverska ríkisins, og Stéttabaráttan hitti hann og lagði fyrir hann nokkrar spurningar til að varpa ljósi á markmið KÍM og baráttuna fyrir því að efla samskipti kínverskrar og íslenskrar alþýðu.

Sp. Hvert er markmiðið með ferð þinni til Kína?

-KÍM barst boð um að senda 6 manna sendinefnd til Kína í þeim tilgangi að auka vináttutengsl og skilning milli þjóðanna. Þeir sem fara munu kynna sér iðnað, framleiðslu, opinberar stofnanir, skóla, sjúkrahús, lífskjör verkalýðsins o. fl. Þá vitneskju sem við fáum munum við nota til að kynna Kína og slá gegn þeim lygum sem reknar eru um Kína af alls kyns borgaralegum öflum og endurskoðunnarstefnunni. Við munum reyna að fara til Tibet og safna upplýsingum um lífskjör þjóðernisminnihluta í Kína, en eins og flestum er kunnugt hafa borgaralegar rægitungur verið iðnar við að breiða út lygasögur um illa meðferð á þjóðernisminnihlutum. Þjóðviljinn hefur t. a. m flutt "fréttir" af nauðungarflutningum þjóðarbrota og þessi ferð gefur okkur tækifæri til að kynna okur lífskjör og stöðu þeirra og afsanna þessar "fréttir

Sp. Nú höfum við orðið varir við mikinn áhuga hjá verkafólki að ferðast til Kína, en á því eru sem eðlilegt er miklir örðugleikar vegna kostnaðar. Er markmið ferðarinnar að einhverju leiti að reyna að greiða fyrir því að verkafólk geti ferðast til Kína?

- Ferðaskrifstofa kínverska ríkisins hefur óskað eftir að við skipulegðum hópferðir íslendinga til Kína. Fyrir hönd KÍM mun ég ræða við þessa ferðaskrifstofu og reyna að semja um hópferðirnar. Hvað varðar kostnaðin, þá mun hópferð lækka hann verulega og auk þess mun verða veittur afsláttur fyrir félaga KÍM og meðlimi fjöldasamtaka alþýðunnar, t. d. verkalýðsfélaga. Líka er mér kunnugt um að verkamanna sendinefndir hafa farið frá fjölmörgum löndum til Kína í boði ríkisstjórnarinnar og ætla ég að ræða möguleika á því að starfandi verkafólki verði boðið til Kína. Ég álít það mikilvægt að verkafólk fái tækifæri til að kynnast alræði öreiganna af **eigin reynslu og geti kynnst þeim yfirburðum sem sósíal-**



Kristján Guðlaugsson

isminn hefur yfir auðvaldsþjóðfélagið.

Sp. Geturðu sagt mér eitthvað um KÍM?

- KÍM var stofnað fyrir rúmum tveimur áratugum með það fyrir augum að efla tengsl og samskipti landanna tveggja. Það starfaði af krafti í nokkur ár, en á tíma menningarbyltingarinnar rofnuðu tengsl þess við Kína, og var starfið þá í lágdeyðu í nokkur ár. En þegar Kínverjar opnuðu hér sendiráð fyrir fjórum árum fór starfsemin af stað aftur og hefur stöðugt eflst síðan. Hingað til hefur starfsemi félagsins að mestu verið bundin við Reykjavík, en á döfini er að færa hana út á landsbyggðina líka. Félagatala KÍM hefur vaxið mjög undanfarið, og sem mælikvarði á styrk félagsins nú má nefna að nú er KÍM að hefja útgáfu félagsblað, Austrið er rautt, sem án efa mun verða til þess að styrkja alla starfsemi félagsins og efla tengsl þess við félaganna, sérstaklega úti á landsbyggðinni. Við höfum líka í bígerð að fara út um landið með farandsýningar og fundi til að efla starfsemina þar.

Sp. Okkur er kunnugt um að vináttufélögin á Norðurlöndum hafa mikið samstarf sín á milli Er KÍM með í því samstarfi?

-Við höfum ekki haft nein tengsl við Norðurlandsfélögin, en það stendur allt til bóta. Ég mun hitta formann norska vináttufélagsins í Peking og ræða nánari tengsl. Eðli starfs vináttufélaganna er slíkt að traust tengsl milli félaganna eru mjög **nauðsynleg. Félögin á Norðurlöndum** halda samnorrænan fund árlega, og við stefnum að því að eiga fulltrúa þar næst.

Sp. Hvaða afstöðu hefur þú til þess fréttaflutnings sem ræðst gegn Kína, segir utanríkisstefnu Kína heimsvaldasinnaða, fasisma innanlands o. þ. h.?

-Það kemur engum á óvart þó afturhaldið ráðist gegn Kína, og við höfum lesið afstöðu þess daglega í Morgunblaðinu allt frá stofnun alþýðulýðveldisins. En í seinni tíð hafa þeir sem kalla sig sósíalista verið öllu iðnari við óhróðurinn um Kína. Utanríkispólitík Kína einkennist af baráttu gegn heimsvaldastefnunni og heimsstyrjaldarhættunni, sem sérstaklega stafar frá risaveldunum tveim, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum. Það er barátta kínverja gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna, t. d. í Angóla og Miðausturlöndum sem eru hin raunverulega orsök fyrir árásum Þjóðviljans. Andstaða þeirra við Kína er sprottin af þjónkun þeirra við Kreml.

Sp. Eitthvað að lokum?

-Það er von mín að þessi ferð okkar til Kína verði til að stórauka tengsl okkar við Kína, og verði til að efla vináttu kínverskrar og íslenskrar alþýðu. Við eigum enn margt ógert til að kynna íslendingum þau stórvirki sem kínversk alþýða hefur unnið undir leiðsögn Kommúnistaflokksins. Ég vildi hvetja alla þá sem hafa áhuga á starfi KÍM en enn hafa ekki gengið til liðs við okkur að gera það strax, því verkefnin eru nægileg.

12/6 -/ÓI

# Örfá orð um stéttabaráttuna í Kína



Héðan frá Kína hafa borist fréttir til vesturlanda öðru hvoru af harðvítugri stéttabaráttu sem hér er háð og tekur sér hinar ýmsu mismunandi myndir.

Menningarbylting. Bylting í menntunarmálum. Gagnrýni á Konfusíus og Lin Piao. Baráttan gegn hægri vindinum. Allt eru þetta víðfræg dæmi sem hafa vakið allt frá undrun og furðu til skelfingar í röðum borgarastéttar heimsins og fjölmiðlum hennar, hvort heldur í vestri eða í herbúðum sósíalheimsvaldasinna í Sovét.

"Hvernig stendur á þessari blessaðri "stéttabaráttu" í Kína," spyr feitur og pattaralegur borgari, "er þetta ekki bara valdabarátta á toppnum?" Það er von að blessaður borgarinn spyrji. Hann er vanur slíkum bolabrögðum í stjórnmálum. Mútur, spilling og valdagræðgi er óaðskiljanlegur hluti af borgaralegum stjórnmálum. Vald auðvaldsins yfir stjórnmálamönnunum í auðvaldslöndunum er einmitt fólgið í slíkum blóðböndum.

Baráttan í Kína á stjórnmálasviðinu er allt annars eðlis en þessi rotna sviðsetning sem kallað er lýðræðisleg stjórnmálabarátta í auðvaldslöndunum. Baráttan hér í Kína beinist gegn valdagræðgi og eiginhagsmunastefnu fámenns þjóðfélagshóps sem feginn vildi sölsa til sín forréttindi á við borgaralega pólitíkusa og auðherra. Baráttan stendur milli alræðis verkalýðsins og þeirra sem vilja feta í fótspor brúnstakkanna í Sovét og byggja upp háþróaðan kapitalisma með sterku skrifstofu- og hernaðarbákni til að vernda sérréttindaaðstöðu sína. Þessi hópur gagnbyltingarsinna felur sig gjarnan undir róttækum vígorðum á meðan þeir treysta sér ekki enn til að hrinda fyriræltlunum sínum í framkvæmd. Þeir reyna að koma sér og sínum fylgifiskum í áhrifamiklar stöður og byggja upp skrifstofuveldi í kringum sig og fjarlægjast þannig fjöldann. Þessir gagnbyltingarsinnuðu skriffinnar bera með sér skriffinnskuna sem jafnframt er fyrsta skrefið á brautinni til kapitalismans; þ. e. fyrsta skrefið til að brjóta niður verkalýðseftirlitið, svifta verkalýðinn völdum og koma þess í stað á kapitalisma af sömu gerð og nú ríkir í Rússlandi.

Félagi Maó Tsetung hefur varpað **þeirri** spurningu fram, hvers vegna nauðsyn sé á alræði öreiganna. Ef óvinurinn væri endanlega sigraður, ef borgarastéttin hefði endanlega verið brotin á bak aftur, þá þyrfti ekki lengur alræði öreiganna. Þá væri kominn á kommúnismi. En það er fjarri lagi að kínverska þjóðfélagið sé orðið **stéttlaust þjóðfélag. Borgaralegur réttur er enn** við lýði, **eins** og t. d. misjöfn launaskipting, **smáframleiðsla** er enn tiltölu**lega stór þáttur í** kínversku efnahagslífi o. s. frv. Svo lengi sem borgarlegur réttur er við lýði er þörf á alræði öreiganna, bendir Maó á, því að hinn borgaralegi réttur myndar grunninn fyrir borgaralegan hugsunarhátt og nýmyndun borgarastéttar. Hún hefur að vísu ekki vald yfir framleiðslutækjunum nema að litlu leyti, enda er henni haldið niðri af alræði öreiganna og pólitíska valdið ekki í hennar höndum. Samt má t. d. nefna að fyrir menningarbyltingu hafði þessari nýju borgarastétt tekist að ná umtalsverðum áhrifum í framleiðslunni, bæði til sveita og eins í fjöldamörgum verksmiðjum. Sérstaklega hafði henni tekist að hreiðra um sig í menntakerfi Kína.

Hvar er þá þessa nýju borgarastétt að finna? Jú, í Kommúnistaflokki Kína. Eðlilega reynir hún að koma sér fyrir þar sem hún hefur einhverja von til að komast til áhrifa. Kommúnistaflokkur Kína er flokkur öreiga og alþýðu Kína. Hann hefur í sínum röðum bestu fulltrúa kínversku þjóðarinnar, frá öllum sviðum þjóðlífsins, frá sérhverjum vinnustað. Kínverskir verkamenn og fátækir bændur (hálf-öreigar) nota flokkinn til að leiða alræði sitt og ríkisvald. Með flokknum halda **kínverskir öreigar völdunum.**



**Hin nýja borgarastétt hlýtur** því og neyðist til að vinna neðanjarðar innan flokks verkalýðsins, eigi henni að takast að leggja alræði verkalýðsins að velli. Með það fyrir augum reynir hún að eyðileggja flokkinn sem tæki í höndum verkalýðsins.

**En hvernig berjast kínverjar** gegn þessari nýju borgarastétt Hvernig tekst kínverskum öreigum að viðhalda lifandi lýðræði og afhjúpa sérhverja tilraun til að brjóta niður alræði sitt. Kínverjar segja að þeir verði annars vegar smám saman að eyða jarðveginum fyrir endurnýjun og uppkomu borgarastéttar og kapitalisma og á hinn bóginn að vera færir um að sjá örugglega við hinni nýju borgarastétt eins og Lin Piao og Teng Hsiao-ping, þegar þeir koma fram á sjónarsviðið.

En hverjir eru það þá sem hljóta það verkefni að afhjúpa hina nýju borgarastétt? Er þetta ekki allt saman uppspuni "maóklíkunnar" til að ryðja úr vegi andstæðingum sínum á toppnum? kann einhver að spyrja. Að halda slíkt væri fásinna. Þeir einir geta látið sér detta það í hug sem eru bundnir af framkvæmd borgaralegra stjórnmála.

Hér í Kína verður maður áþreifanlega var við hversu almenn stjórnmálaþátttakan er. **Baráttan gegn Teng Hsiao-ping og þeirri áætlun sem hann og hans fylgifiskar lögðu fram var ekki takmörkuð innan** þröngs hóps framámanna. Hún tók á sig mynd fjöldabaráttu sem náði til sérhverrar verksmiðju, samyrkjubús, skóla o. s. frv. Á öllum stigum þjóðlífsins tóku menn fyrir og ræddu pólitík Tengs. Þessi pólitík fólst í meginatriðum í því að láta aukna framleiðni vera leiðandi fyrir þjóðfélagsstarfið. Teng barðist fyrir að svæfa stéttabaráttuna í þjóðfélaginu, þar sem hann taldi að hún truflaði framleiðsluna. Hann skipti engu í þágu hverra framleiðsluaukningin var, svo fremi sem hún **var nægjanlega mikil. Draum**ur Tengs um að gera Kína að stórveldi, án tillits til stéttabaráttunnar innan Kína, hefði vafalaust leitt til að Kína hefði umbreyst í heimsvaldaríki á borð við Sovétríkin, hefði pólitík hans verið fylgt.

Kínversk alþýða sá hvernig hagsmunum hennar var ógnað með pólitík Teng Hsiao-pings og hvernig hann vildi varpa alþjóðahyggjunni fyrir róða. Alþýðan reis upp eins og voldugur straumur sem ekkert fær stöðvað og krafðist þess að endurskoðunarpólitík Tengs yrði gerð útlæg úr kínverskum stjórnmálum. Ákvörðun miðstjórnar kínverska kommúnistaflokksins, um að svipta Teng Hsiao-ping öllum ábyrgðarstöðum sínum og fordæma pólitík hans, var bein afleiðing af baráttu fjöldans gegn þessari pólitík. Hefði flokksforystan látið deigan síga fyrir endurskoðunarstefnunni hefði alþýðan risið upp eins og stálhnefi og sjálf séð um að styrkja vopn sitt, flokkinn, með því að hreinsa út gagnbyltingarsinnaðar hugmyndir Teng Hsiao-pings.

Maó Tse-tung hefur beint þeirri áskorun til fjöldans að nema fræðikenninguna um alræði öreiganna og hafa strangt eftirlit með forystumönnum sínum, að þeir fylgi raunverulegum hagsmunum alþýðunnar.

Við skulum vona að kínverskum öreigum takist framvegis sem hingað til, að framfylgja þessari áskorun og styrkja alræði sitt. Mér sýnist allt benda til þess að svo verði um nánustu framtíð, af byltingarsinnuðum ákafa kínverja þeirra sem ég hef komist í kynni við að dæma.

Peking 15. maí '76.
Ragnar Baldursson.

# Sovétríkin „Fallstykki meira verð en brauð"

Í Íslandsklukkunni eftir Halldór Laxness er að finna gífurlega ádeilu á útþenslustefnu þýsku nasistanna, þegar þýskur hermaður segir við Jón Hreggviðsson til að afsaka matvælaskortinn í Þýskalandi: "Fallstykki eru meira verð en brauð." Þessi kaldhæðna gagnrýni á nasismann á í dag fyllilega við um hin fasísku Sovétríki, þar sem efnahagurinn er spenntur fyrir vígbúnað og stríðsundirbúning á sama tíma og alþýðuna skortir matvæli.

## Uppskerubrestur síðasta árs leiðir af sér matvælaskort

Þegar Brésnef komst til valda árið 1964 sagði hann að frá og með þeim tíma yrði um að ræða vendipunkt í sögu sovésks landbúnaðar. Hann setti ný lög sem kváðu á um að gróðinn yrði mælikvarði rekstrargrundvallar í landbúnaði, og að ekki yrði lögð áhersla á framleiðslu afurða sem ekki skiluðu gróða. Þetta hefur í raun komið út þannig að framleiðsla á útsæði og skyldum landbúnaðarafurðum hefur minnkað gífurlega því þær skila ekki nægum gróða. Brésnef gaf líka leyfi til að opna "frjálsa markaði" þar sem selja mætti landbúnaðarafurðir án opinbers eftirlits og framhjá ríkisverslun með korn og grænmeti. Þetta gaf grænt ljós á alls konar brask í landbúnaði því vegna grænmetisskorts er hægt að fá góðan gróða af svartamarkaðsbraski með grænmeti á þessum mörkuðum. Sá vendipunktur sem Brésnef talaði um hefur sýnt sig vera algert hrun sovésks landbúnaðar.

1975 nam uppskera korns 137 milljónum tonna, en skv. áætlunum átti uppskeran að nema 215 milljónum tonna. Þetta er 58 milljónum tonna minni uppskera en 1974, og 70 milljónum tonna undir áætlaðri uppskeru. Opinberir aðiljar í Sovétríkjunum hafa auðvitað kennt náttúruhamförum um þennan kornskort, en ef það er rétt þá áætla sovésk yfirvöld uppskerubrest af hálfu náttúruhamfara næstu 5 árin, því þau hafa gert samning við Bandaríkin um kaup á korni næstu 5 árin. Sovétríkin, sem á tíma Stalíns voru sjálfu sér næg um korn og meira að segja fluttu það út, hafa á valdatímum Brésnefs flutt inn 96,5 millj. t.korns og á þessu ári eru áætluð kaup á a.m.k. 30 millj. t. Endurreisn kapitalisma í Sovétríkjunum er að drepa niður sovéskan landbúnað, og í framtíðinni munu Sovétríkin ekki vera fær um að brauðfæða þegna sína.

## Kjötskortur - "Borðið fisk"

Þar sem gróðinn er mælikvarði á alla landbúnaðaframleiðslu í Sovétríkjunum, og **lítið framboð þýðir hátt verð, er kornskorturinn ekki það** eina sem amar að sovéskum landbúnaði. Þrátt fyrir mikinn innflutning á kjöti frá Mongólíu og A-Evrópu er gífurlegur kjötskortur í landinu. Hið víðflæma beitiland sem Sovétríkin ráða yfir (370 millj hektara) er illa nýtt, og stór hluti kjöts er seldur á svörtum markaði eða "frjálsu mörkuðunum" á uppsprengdu verði. Til að græða meira hafa forstjórar samyrkjubúanna gripið til þess ráðs að slátra og selja kálfa og grísi, en þeir eru aðeins að bíta í skottið á sér með því, því það þýðir enn meiri kjötskort á næstu árum þar sem eldisgripir eru seldir áður en þeir ná fullum þroska. Opinberir aðiljar hafa reynt að leiða huga alþýðunnar frá þessu með áróðursherferðum sem ganga út á hollustu í mataræði, og aðal vígorðið sem sjá má í sovéskum verslunum þessa dagana er "Félagi, borðaðu fisk, það er hollt." En því miður er oft líka skortur á góðum neyslufiski svo illa gengur að fá fram breytingu á mataræði. Sovéska alþýða hef-

**Frh. á bls. 11**



# Korea Ein þjóð

Heimsauðvaldið, með Bandaríkin í fararbroddi, hafa allt frá 1950 gert allt sem í þeirra valdi stendur til að brjóta niður Alþýðulýðveldið Koreu (DPRK). Það hefur beitt öllum tiltækum ráðum, allt frá beinum stríðsrekstri til viðskiptaþvingana og skemmdarstarfsemi. En upp á síðkastið hafa Bandaríkin öll færst í aukana með stríðshótanir sínar, því bandaríska heimsvaldastefnan óttast vaxandi samhug og einingu alþýðu Kóreu. Pak-stjórnin í S-Kóreu hefur algerlega afhjúpað sig sem fasíska leppstjórn og samhliða vaxandi kúgun hennar á alþýðunni missir hún fótfestuna.

## Bandaríkin vilja eilífa skiptingu landsins

Að undangenginni mikilli lygaherferð um "ógnun úr norðri" hafa Bandaríkin aukið gífurlega vígbúnað sinn og Pak-leppstjórnarinnar í S-Kóreu. Þau hafa flutt til Kóreu hersveitir frá Taiwan og Thailandi og nemur heildarfjöldi bandarískra hermanna í Kóreu nú 46 þúsund manns. Líka hafa Bandaríkin flutt til Kóreu langfleygar risa-sprengjuflugvélar og byggt þar eldflaugaskotpalla, auk þess sem vitað er að kjarnorkuvopn eru staðsett nálægt landamærum ríkjanna. "Sameinaður" herafli Bandaríkjanna og S-Kóreu hefur haldið stórar heræfingar, þar sem m.a. tók þátt allur sjöundi flotinn. Undir yfirskini "ógnunarinnar úr norðri" reyna Bandaríkin á þennan hátt að vígbúast gegn vaxandi andspyrnu í suðri og til að geta með valdi haldið Kóreu sundraðri. Markmiðið er að halda því kúgunartaki sem Bandaríkin hafa á S-Kóreu og um leið viðurkenna N-Kóreu því Bandaríkin vita af biturri reynslu að þau geta ekki brotið Alþýðulýðveldið á bak aftur.

## Stefna sameiningar öðlast stöðugt meira fylgi

Gegn þessum áætlunum heimsvaldastefnunnar stendur megin þorri alþýðu Kóreu sem óskar eftir að lifa í sjálfstæðri, óháðri, sameinaðri Kóreu. Sú stefna Alþýðulýðveldisins að vinna að friðsamlegri sameiningu öðlast stöðugt meira fylgi þó að enn séu margir erfiðleikar, sem verður að yfirstíga, áður en það getur orðið.

Á 30. ára afmæli Verkamannaflokks Kóreu (10. okt. 1975), lagði Kim Il Sung fram áætlun frá hendi Alþýðulýðveldisins um sameininguna. Hann undirstrikaði að kóreanska þjóðin hefur lifað sem ein þjóð í þúsundir ára, hefur sameiginlega tungu, menningu og sögu og er af sameiginlegum forfeðrum. Hann benti á að allt tal um tvær kóreanskar þjóðir er komið frá USA-heimsvaldastefnunni og þjónar markmiði hennar.

Fyrsta skrefið til sameiningar Kóreu er að binda endi á alla erlenda íhlutun í landinu. Þetta merkir að bandarískt herlið verður að fara frá S-Kóreu. Þegar því marki er náð er hægt að undirrita friðarsamninga. Gagnkvæm fækkun í herjum Norður- og Suðurhlutans niður í ca. 100.000 manns er skilyrði fyrir sameiningu. Þá er nauðsynlegt að stofna breiða þjóðfylkingu fyrir allt landið þar sem allir sem vilja starfa að því að koma á sameinaðri, óháðri Kóreu geta unnið saman að því að losa landið undan áhrifum heimsvaldastefnunnar og gera sameininguna að veruleika. Þjóðfylking sem þessi er besta tryggingin fyrir að sameiningin verði friðsamleg. Næsta skrefið verður að stofna til sameinaðrar ríkisstjórnar sem inniheldur pólitískar stofnanir beggja landshlutanna en sem um leið myndar æðstaráð með fulltrúum Alþýðulýðveldisins sem og fulltrúum "ríkisstjórnarinnar í suðri. Þetta mun tryggja samvinnu á öllum sviðum þjóðfélagsins sem mun aftur flýta fyrir algerri sameiningu á öllum sviðum.

Kim Il Sung lauk máli sínu með því að undirstrika að kóreanska þjóðin væri fyllilega fær um að leysa sín vandamál sjálf með því að sameinast og berjast gegn aðskilnaðarsinnum, reka Bandaríkin burt og sameina Kóreu.

-/studst við Klassekampen nr 34, '76, ÓI

# Um Grænland
# Námuverkamenn í verkfalli

Eins og skýrt hefur verið frá í Stéttabaráttunni rekur Greenes-auðhringurinn stóra blý og sink-námu í "Svarta englinum" fjallinum Marmolik í Grænlandi. Þar vinnur mikill fjöldi námuverkamanna við hin erfiðustu skilyrði. Í eftirfarandi grein munum við varpa ljósi á hvers eðlis verkalýðsbaráttan er í Grænlandi, hvernig ráðningarskilmálar eru og hvernig samstaða grænlenskra og danskra verkamanna hefur fært sigur í verkalýðsbaráttunni.

Þann 19. maí sl. aflétttu 76 danskir og grænlenskir verkamenn hálfsmánaðarlöngu verkfalli sem þeir háðu gegn Greenex og forstjórum fyrirtækisins í Grænlandi. Kröfur þeirra náðu 100% fram að ganga. Verkfallið hófst vegna þess að stjórnin neitaði að undirskrifa afrit af tímaseðlum sem notaðir eru við að reikna út bónusa. Séu tímaseðlarnir ekki undirritaðir er ómögulegt fyrir verkamennina að tryggja sig gegn kaupráni af hálfu fyrirtækisins. Auk þessa átti vaxandi óánægja með léleg vinnuskilyrði og lítil réttindi sinn þátt í því að verkfallið átti sér stað. Verkamenn í Marmolik eru ráðnir samkv. ákveðnum samningi sem þeir verða að undirrita, og um leið og þeir eru ráðnir verða þeir að selja dýrmæt lýðræðisréttindi, ss verkfallsréttinn. Í ráðningarskilyrðunum stendur m.a.: ..."hugsanleg óánægja má ekki leiða til vinnustöðvunar eða minnkaðs vinnuhraða. Slíkt mun verða skoðað sem samningsbrot." Og samningsbrot þýðir, eins og segir í samningnum, "...að réttur til launa, húsnæðis, fæðis eða annarra hlunninda hættir, og viðkomandi verður að hverfa af staðnum sem fyrst fyrir eigin reikning." (þ.e. fyrirvaralaus brottrekstur). Um leið og verkfallið hófst var reynt að beita þessum samningsákvæðum. Námuverkamennirnir 76 voru allir reknir og þyrla fengin til að flytja þá á brott. En verkfallsmenn neituðu að yfirgefa svæðið, og ákváðu að færa baráttuna fram til sigurs. Verkfallsvaktir hindruðu aðflutning að og frá námunni. M.a. var komið í veg fyrir að hægt væri að flytja olíu til kynditækjanna í námunni, en ef kynditækin stöðvuðust var ljóst að stórtjón yrði vegna frostskemmda



á vélum.

Þegar ljóst var að verkfallsmenn myndu hvergi hnika frá kröfum sínum gafst fyrirtækið upp og gekk að öllum kröfum þeirra.

Þetta verkfall hefur orðið til að varpa ljósi á þá hörðu og ósanngjörnu skilmála sem verkamenn í Grænlandi sæta oft af hálfu atvinnurekenda, og það hefur orðið kveikjan að umræðum um verkalýðsmál og lýðræðisréttindi verkafólks almennt í Grænlandi.

13/6, Hópur Grænlandsvina.

# Breska heimsvaldastefnan

Nýlega birtist í breska blaðinu "The Worker" málgagni Kommúnistafloks Bretlands m-l grein um Ísland. Fjallaði hún um landhelgismálið og stofnun Kommúnistaflokksins. Við grípum hér niður í lokaorð greinarinnar:

"Hinn nýstofnaði Kommúnistaflokkur Íslands m-l hefur sett sér að hefja sanna uppreist baráttu íslenskrar verkalýðsstéttar, sem hefur legið í láginni síðastliðin fjörutíu ár - eða allt frá því gamli flokkurinn var leystur upp í ráðþrota kratískt bandalag, sem hefur svo orðið til reikandaháttar í verkalýðshreyfingunni

Löng hefð er á vináttu breska og íslenska fólksins, og við, bresk verkalýðsstétt, verðum nú að gera siðferðislega skyldu okkar. Þrátt fyrir áróðurinn þá á staða Íslands mikla samúð í Bretlandi. En þetta er ekki nóg. Við verðum að hefja upp kröfuna "breska heimsvaldastefnu burt af Íslandi STRAX." Við verðum að sameinast þeim í baráttunni til verndar hvoru landinu fyrir sig gegnum stéttabaráttu til byltingar."

THE WORKER 

Published by the Communist Party of Britain(Marxist-Leninist) No 7 April 5th 1976 3p

# Lygi verður ekki sannleikur þótt hún sé endurtekin

Á tímum Leníns og Stalíns, þegar Sovétríkin voru sósíalísk, var rekinn stanslaus áróður gegn sósíalísku skipulagi þjóðfélagsins og leiðtogum þess. Auðvaldspressan og trotskísk þý hennar breiddu út stórfelldar lygar og falsanir um verkalýðsríkið og áttu sér enga ósk heitari en að það liði undir lok.

Í dag þegar Kína er höfuðvígi sósíalismans í heiminum þá beinist lygaáróðurinn gegn því. Sérstaklega hefur utanríkisstefna Kína verið á milli tannanna á óvinum sósíalismans, hver lygin á fætur annarri hefur fengið pláss á síðum aðskiljanlegra blaða um allan heim.

Miðstöðin fyrir þessa lygaútbreiðslu er Moskva. Sósíalheimsvaldasinnarnir, sem reyna að fela sitt rétta eðli og kenna sig við sósíalismann, framleiða nú lygarnar á færibandi. Hér á landi fá þær inni aðallega á síðum Þjóðviljans, Tímans og Neista.

Eitt umfangsmesta málið er afstaða Kína gagnvart ástandinu í Chile. Lygamerðirnir telja sig hafa komist í feitt og segja ljótar sögur af samskiptum Kína við Chile.

Helstu sögurnar eru: 1) Kínverska sendiráðið var lokað fyrir flóttamönnum þegar Pinochet tók völdin og hóf fjöldamorð á vinstri mönnum. 2) Sendiherra Chile í Peking var rekinn úr landi eftir að stjórn Allende var fallin. 3) Kína neitar að slíta stjórnmálasambandi við Pinochet-klíkuna og neitar að taka þátt í verslunarbanni gegn henni. 4) Kína selur fasistaböðlunum vopn.

## Hver er sannleikurinn?

1) Kínverska sendiráðið í Santiago var opið allan tímann. Hvort þangað flýðu flóttamenn er annað mál.

2) Sendiherra Allende-stjórnarinnar var sviptur starfi af Pinochet. Kínverska stjórnin bauð honum landsvist (eins og Shianouk) en hann kaus að fara til S-Ameríku.

3) Afstaða Kína til sambúðar þjóða með ólík þjóðfélagskerfi byggir m.a. á þeirri grundvallarreglu að gagnkvæmt afskiptaleysi skuli ríkja um innri málefni ríkja. Það er svo hlutur alþýðunnar í hverju landi fyrir sig að breyta þjóðfélaginu. Önnur grundvallarregla er sú að ríki með ólík þjóðtelagskerfi skuli ástunda friðsamlega sambúð og ekki fara með ófriði hvort gegn öðru. Viðskiptabann er eitt form stríðsrekstrar milli ríkja samanber bann Bandaríkjanna gagnvart Kúbu o.fl. Kína tekur þess vegna ekki þátt í viðskiptaþvingunum gegn neinu ríki, hvort sem þar ríkir ógnarstjórn eða "vestrænt lýðræði." Kína hefur stjórnmálasamband við bæði Sovétríkin og Chile þó svo að í báðum ríkjunum ríki grimm ógnarstjórn sem kemur andstæðingum sínum fyrir kattarnef eða í fangelsi.

4) Þegar Þjóðviljinn birti fölsuð bréf um vopnasölu Kína til Chile þá sannast aðeins þar með hverjum Þjóðviljinn þjónar. (Sjá Þjóðv. 29.5.76). Þetta víðfræga falsbréf hefur verið rækilega afhjúpað. Þegar málin eru íhuguð nánar þá afhjúpast betur málatilbúnaður Kína-andstæðinga í þessu máli. Vopnabúnaður Pinochet-hersins kemur nú frá Bandaríkjunum að mestu leyti (sjá 10. tbl. Stéttabaráttunnar 1976). Þar að auki stundar Kína ekki vopnasölu. Þau vopn sem Kína lætur af hendi eru gjafir samanber nýlega gjöf á flugvélamótorum til Egyptalands, og stuðning Kína við Víetnam, Kambódíu o.fl. Kína var eitt af fyrstu ríkjunum til að fordæma valdarán Pinochet-klíkunnar og styður á engan hátt glæpaverk hennar, vopnasala er því útilokuð af hálfu Kína. Kína styður af heilum hug andspyrnuna gegn fasistunum og því væri fráleitt að selja Pinochet vopn. Að halda því fram er það sama og að segja að Kína sé ekki sósíalískt ríki og setja það á bekk með svikurunum Brésnef & Co.

Afstaða Alþýðufylkingarinnar (sjá 1. tbl. Stb. 1976) í Chile gagnvart Kína er sú að þeir skoða Kína sem einn helsta stuðningsaðilann. Það eru aðeins trotskistar og endurskoðunarsinnar sem halda öðru fram (samanber viðtalið

frh. bls. 11.

# Angóla Sovésk „frelsun": Frelsishetjur fangelsaðar

Andstaðan gegn ítökum Sovétríkjanna í Angóla vex stöðugt. En stórfelldar ofsóknir eru í gangi gegn þeim sem hafa snúist gegn hernámi Sovétríkjanna. Juan Baptista, angólskur föðurlandsvinur og einn af frumkvöðlum frelsishreyfingarinnar liggur nú meðvitundarlaus vegna misþyrminga í einu af fangelsum MPLA. Joaquim Pinto de Andrade, áður fyrr heiðursformaður MPLA, er nú í fangelsi og á yfir höfði sér dauðadóm.

VANGUARDIA OPERARIO, málgagn Kommúnistahreyfingar Angóla, hefur afhjúpað þá kúgun og ofsóknir sem beitt er gegn byltingarsinnum og andfasistum. Þessir atburðir eru sönnun þess að baráttan fyrir raunverulegu sjálfstæði og gegn erlendri íhlutun er ekki á enda. Baráttan heldur áfram þrátt fyrir ofsóknirnar.

Samtímis því sem nernaðarleg og pólitísk áhrif Sovétríkjanna aukast, þá eykst og kúgunin á andstöðunni. Margar af frelsihetjum Angóla er nú að finna í fangelsum MPLA.

Um þetta segir Vanguardia Operario:

- Hernaðaryfirráð sósíalheimsvaldasinnanna ásamt loforðum þeirra um áframhaldandi stuðning við þá nýju borgarastétt sem vex nú í Angóla hefur styrkt stöðu þeirra í landinu.

- Til þess að samvinna þeirra verði möguleg verða þeir að koma í veg fyrir virkni alþýðunnar, þeir verða að hindra það að verkamenn, bændur og aðrir föðurlandsvinir berjist áfram til þess að öðlast raunverulegt sjálfstæði þjóðarinnar. Þess vegna er kúguninni beitt í dag gegn byltingarsinnuðum föðurlandsvinum, gegn heiðarlegum andfasistum í MPLA, gegn kommúnistum, gegn fjöldahreyfingum og verkalýðsstéttinni.

## Föðurlandsvinir settir í fangelsi.

Aðal skotspæni ofsóknanna er Kommúnistahreyfing Angóla. En að undanförnu hefur hópur velþekktra lýðræðissinna og þjóðernissinna verið hnepptur í fangelsi.

Meðal pólitísku fanganna er Rui Ramos, áður fyrr virkur í MPLA, ritstjóri blaðsins Angóla, einn af stofnendum Vináttusambands Angóla-Mósambík, ritstjóri aðalmálgagns MPLA ("Við munum sigra") og virkur í Amilcar Cabral-nefndunum. Aðrir vel þekktir eru Joaquim Pint de Andrade, sem var áður fyrr heiðursformaður MPLA, leiðtogi Revolta Activa, Gentil Viang, einnig virkur í Revolta Activa.

Kommúnistahreyfing Angóla hefur ásamt portúgalska flokknum PCP-R (marxískur-lenínískur) birt yfirlýsingu þar sem skorað er á almenning um allan heim að mótmæla fangelsun þessara föðurlandsvina og fleiri.

Ennfremur eru meðal fanganna fólk frá pólitískum einingum MPLA, frá fjöldahreyfingunum og frá herstjórnunum í



Veggspjald með vígorðinu: Frelsið alla pólitíska fanga.

mörgum héruðum.

Þegar í ágúst 1975 var byrjað að ofsækja Amilcar-Cabral-nefndirnar og margir nefndarfélaga eru nú í fangelsum. Ennfremur hafa allar umræður um "alþýðulýðræði" verið bannaðar í fjölmiðlum, ennfremur er bannað að benda á Kína sem fordæmi. Mörg málgögn byltingarsinna hafa verið bönnuð, þ.á.m. Angóla, 4. febrúar, og Alþýðuvöld. Að undanförnu hafa ofsóknirnar breyst í opinbera leit að "maóistum" og í kjölfarið hefur komið lygaherferð og andkommúnísk slagorð.

Herferðinni gegn andstöðunni er stjórnað af innanríkisráðherranum Nito Alves og Ze van Dunen, en þeir eru almennt álitnir vera tryggustu fylgismenn Moskvu í ríkisstjórn Angóla.

## Byltingarsinnar sviptir stöðum sínum

Meðal þeirra aðgerða sem hafa vakið hvað mesta reiði meðal alþýðunnar var fyrirskipuð upplausn Samræmingarnefndarinnar fyrir hverfanefndir alþýðunnar í Luanda í september 1975.


**Juan Baptista - angólskur föðurlandsvinur og brautryðjandi í frelsisstríðinu.** Hann liggur nú meðvitundarlaus vegna misþyrminga í MPLA fangelsi.

Víða eru byltingarleiðtogar settir af og í þeirra stað settir fulltrúar smáborgara sem eru studdir af MPLA. 18. september voru t.d. fangelsaðir margir félagar í alþýðunefndum í Sao Paolo. Daginn eftir gaf fulltrúi innanríkisráðuneytisins skýringu sem samanstóð af reiðilestri um "vinstriöfgamenn" blönduðum upphrópum eins og "niður með marxismann."

Þetta eru aðeins nokkur dæmi um ofsóknirnar gegn andstöðunni í Angóla. Pólitíska baráttan er hörð og þau öfl sem vinna að félagslegum framförum og raunverulegum sjálfsákvörðunarrétti hafa hafið baráttuna í Angóla.

Heimild: Gnistan, 21.



# ... í Stuttu máli

## SOVÉSKIR KAPITALISTAR EIGA OLÍUFÉLAG Í BELGÍU

Stærsta olíufélag Belgiu í dag er ekki Bandarískt eða Breskt. Í vikublaði belgískra marxista-leninista, Clarte et L'Exploite, er afhjúpað að það er í eigu rússneskra aðilja.

Sovéska olíufélagið, "Nafta B" var stofnað í Antwerpen, aðal útflutnings-og hafnarborg í Belgiu, árið 1967. Stofnfé þess nam 3 milljónum franka, og voru þeir notaðir til að kaupa upp tanka og birgðahús af belgísku fyrirtæki. Hlutafé "Nafta B" var fljótlega aukið í 202 milljónir franka (1972) og árið 1974 fór sala félagsins á ársgrundvelli yfir 20 billjónir franka. Þannig varð félagið stærra en Chevron og Shell, og raunar er fyrirtækið það næststærsta í Belgiu að mati blaðsins.

Æðstu stjórnendur fyrirtækisins í Belgiu eru allir meira eða minna tengdir revisionista flokk Belgiu auk rússa sem þar starfa.

## PÓLITÍSKAR OFSÓKNIR Í DANMÖRKU

Einn félagi í KFML, dönsku kommúnistasamtökunum, var rekin úr starfi vegna pólitískrar afstöðu sinnar og vegna þess að hann hélt á lofti línu stéttabaráttu. Þessi maður, Tonni Haugaard, var trúnaðarmaður hjá Ceres, og var leiðandi í baráttunni gegn uppsögnum og kjaraskerðingum meðal vinnufélaga sinna. Hann leiddi andstöðuna gegn stéttasamvinnulínu DKP (danski "kommúnista flokkurinn) og barðist fyrir raunverulegu lýðræði innan verkalýðsfélagsins. Það voru "kommúnistar" af sömu gerð og finna má innan Alþýðubandalagsins sem gerðu gangskör að því að fá hann rekin.

Brottrekstur Tonni Haugaard hefur orðið til þess að fjölmargir sem áður veigruðu sér við að taka þátt í baráttunni gegn stéttasamvinnunni og því að afleiðingum kreppunnar yrði velt yfir á herðar verkalýðsins hafa nú séð að óvinurinn verður ekki sigraður með því að verkalýðurinn haldi sér saman og hafa farið út í baráttuna af fullum krafti. Líka hefur Tonni borist stuðningsyfirlýsingar frá fjölmörgum verkalýðsfélögum, starfsmannafélögum, pólitískum félögum og einstaklingum. Það hefur sýnt sig í Danmörku að þegar reglulega kreppir að auðvaldinu koma endurskoðunnarsinnar af sömu gerð og Alþýðubandalagið alltaf fram sem skemmdarvargar og sundrungarafl innan verkalýðshreyfingarinnar. Brottrekstur Tonni sannaði það best.

## PÓLSK ALÞÝÐA UNDIR HÆL SÓSÍALHEIMSVALDASTEFNUNNAR

Í Póllandi er kapítalískt hagkerfi. Þar hefur ríkt að undanförnu mikil verðbólga og atvinnuleysi, eins og í hinum kapítalísku ríkjunum.

Árið 1970 gerðu pólskir verkamenn uppreisn gegn skriffinnsku borgarastéttarinnar. Þá urðu mikil átök í öllum helstu borgum Póllands, og hertóku verkamenn verksmiðjur og járnbrautarstöðvar þannig að landið var lamað af verkföllum. Þá réðist herinn til atlögu gegn verkalýðnum með stuðningi sovéska hersins. Uppreisnin var brotin á bak

frh. bls. 11.

# Frjálsir bændur í frjálsu Þýskalandi

Á liðnum vetri hélt KPD/ML (Kommúnistaflokkur Þýskalands m-l) fjóra fundi í Norður-Þýskalandi. Félagar í KPD/ML undirbjuggu hvern fund með því að ferðast nokkrum helgum áður um sveitina. Þeir töluðu við bændur og hengdu upp veggspjöld til að auglýsa fundinn. Á fundunum voru síðan aðeins þeir félagar sem starfað höfuð að undirbúningi þeirra. Bændur voru því í meirihluta á fundunum og réðu framgangi þeirra. Í lok hvers fundar hélt formaður KPD/ML, Ernst Aust, ræðu. Í upphafi ræðu sinnar talaði hann um baráttuna gegn endurskoðunnarstefnunni. Hann vék síðan að að baráttu þeirra í A-Þýskalandi og kom að aðalviðfangsefni hvers fundar - Frjálsir bændur í frjálsu Þýskalandi. Í A-Þýskalandi er hvorki sósíalismi né kommúnismi. Þar er kapitalismi, ríkiseinokunarkapitalismi. Þar eru verkamenn arðrændir eins og í V-Þýskalandi. Þar er sósíalfasismi. Hann spurði síðan áheyrendur: "Er bóndinn frjáls? Nei. Landbúnaðar ráðherra V-Þýskalands sagði í viðtali að staða bænda væri góð og að rauntekjur ykjustum 19% á þessu ári. Hver fær þessi 19%? Bændur?" Ernst Aust sýndi síðan út frá tölulegum upplýsingum að sá fjórðungur bændastéttarinnar sem best væri settur hefði sex sinnum meiri tekjur en sá fjórðungur sem verst væri settur. Stefna ríkisstjórnarinnar er þannig að hinir eignaminni eru flæmdir af jörðum sínum meðan hinir eignameiri fá stuðning. Ríkisstjórnin gerir áætlun um að engin jörð verði minni en 70 hektarar árið 1980.

Nú er meðaljörð í V-Þýskalandi 15,4 hektarar en í Schleswig-Holstein er meðaljörð 32,9 hektarar. Opinberlega á því að flæma burt helminginn af bændum. Frá 1949 hafa 800.000 bændur flosnað upp af jörðum sínum. Við þessa tölu eiga að bætast 340.000. Árið 1925 brauðfæddi einn bóndi fjóra bæjarbúa en nú brauðfæðir hann fjörutíu. Fær bóndinn tíu sinnum hærri laun en þá?

Hver er raunveruleg staða bænda? Tekjur í landbúnaði eru 40% minni en í iðnaði. Ósamræmi milli landbúnaðar- og iðnaðarverðlags hefur skert tekjur bænda um 60 milljarða marka frá því 1949. Auk þess er fjórðungur eigna bænda veðsettar í bönkum. Tekjur smábænda miðað við 64 stunda vinnuviku eru langt undir tíma launum í iðnaði. Í sveitum er barnadauði 50% yfir meðallagi. Áttatíu prósent af húsfreyjum verða að vinna með bændum sínum og af þeim helmingur meira en átta stundir daglega.

Hverjir eru óvinir bænda? Matvælaeinokun Efnahagsbandalagsins! Gróðinn hjá því er yfir 50%. Það ákveður verðlag á búvörum þannig að bændur glata sjálfstæði sínu smátt og smátt. Þeir þurfa að þræla sem launaverkamenn einokunarinnar á sinni eigin jörð. Það eru einnig stóru verslunarhringirnir sem græða. Ágóði þeirra nemur oft milli 300 og 400%. Þeir fá vörur frá öðrum Efnahagsbandalagsríkjum þar sem þær eru ódýrastar hverju sinni og lækka verðlag á vörum sem unnar eru í landinu. Vínbændur í Frakklandi háðu í vetur harðvítuga baráttu gegn þessari stefnu. Hlutur landbúnaðarvélaverslana, hringa og fóðurvöruverslana jókst frá 16% upp í 25% á síðasta ári. Bankarnir halda einnig bændum niðri með háum vöxtum. Það eru vestur-þýsku auðhringirnir sem ríkisstjórnin styður. Hún hugsar um hag landbúnaðarkapitalistanna og stórbænda sem ræna landi smábænda og útvega þannig iðnaðinum ódýran vinnukraft. Nú ráða ríkið, bankar og einokunarhringir og stórbændur yfir 30% af landareigninni í V-Þýskalandi. Leiðtogar bændasamtaka og stórbændur græða á neyð smábænda. Áður voru bændur kúgaðir af aðlinum. Nú eru þeir kúgaðir af iðnaðar- og bankaauðvaldinu, rændir af matvæla hringjum og stórverslunum, sviknir af leiðtogum bændasamtaka sinna, settir út á gaddinn af ríkinu og ríkisstjórninni og ofurseldir gjaldþroti. Bændaleiðtogar segja við ykkur það sama og verkalýðsleiðtogar segja við verkamenn: "Verið ekki róttækir." Við segjum: Gerist byltingarmenn annars fáið þið ekkert. Við verkamenn stöndum með ykkur. Eins og verkamenn standa saman gegn auðvaldinu verða bændur að sameinast í byltingarsinnaða fjöldahreyfingu þar sem auk smábænda er annað kúgað sveitafólk í. Eina leið bænda er að standa við hlið verkamanna í baráttu þeirra fyrir sameinuðu, sjálfstæðu og sósíalísku Þýskalandi.

Þýtt og endursagt úr Roter Morgen 20/76 gbg

# Kommúnistar ofsóttir

Rede der Genossin Karin Wagner vor Gericht — 1 H 3752 CX — Seite 9

Proletarier aller Länder und unterdrückte Völker, vereinigt Euch!

ROTER MORGEN

Zentralorgan der KPD/Marxisten-Leninisten

Nr. 21 vom 22. Mai 1976 — 10. Jahrgang — 50 Pfennig

Terrorurteile im ROTER-MORGEN-Prozess

1 Jahr und 4 Monate Gefängnis!

Am 13. Mai wurde im Dortmunder Amtsgericht das Urteil im Prozeß gegen den ROTEN MORGEN gefällt: 1 Jahr Gefängnis für den Verleger, Genossen Gernot Schubert, und 4 Monate für die verantwortliche Redakteurin, Genossin Karin Wagner. Beide Strafen wurden auf Bewährung ausgesprochen. Damit endete vorerst der bisher umfangreichste Prozeß gegen das Zentralorgan der KPD/ML. Mit diesem Urteil will die Justiz dem ROTEN MORGEN verbieten zu schreiben, daß politische Gefangene in Gefängnissen der Bundesrepublik durch Isolationshaft gefoltert werden, mit diesem Urteil wird es strafbar, die Bundesrepublik einen „Ausbeuterstaat" zu nennen, von „Kapitalistenklasse", von „angeblicher Demokratie", von „Diktatur der Bourgeoisie" usw. zu sprechen. Es ist ein Schritt zum Verbot der kommunistischen Presse überhaupt. Gegen das Urteil wurde Berufung eingelegt.

Allt frá stofnun KPD/ML (Kommúnistaflokks Þýskalands m-l) hefur flokkurinn legið undir stöðugum árásum af hendi hins borgaralega ríkisvalds. Meðlimir úr flokknum hafa verið myrtir af lögreglunni og margir leiðtoga flokksins hafa verið hnepptir í fangelsi. Á þá hafa verið bornar margvíslegar sakir, allt frá því að "efna til uppþota" til þess "að hvetja til ofbeldisverka." Kröfugöngur flokksins hafa verið bannaðar, og á 1. maí hefur lögreglan ráðist gegn flokksgöngunum, og fjöldi manna hefur verið hnepptur í fangelsi og verið látinn sæta alls kyns harðræði af hálfu ríkisvaldsins fyrir pólitíska starfsemi á vegum flokksins. En nú kynni einhver að spyrja: En er V-Þýskaland ekki réttarríki og lýðræðisríki? Eitthvað hlýtur þetta fólk að hafa til saka unnið."

Í V-Þýskalandi afhjúpast berlega að lýðræðið er ekki fyrir verkalýðsstéttina. Samkvæmt þýskum lögum er bannað að segja að Þýskaland sé aðránsríki, að það sé stéttaþjóðfélag, og yfirhöfuð að verkalýðurinn sé kúgaður. Á sama tíma og á dögum Hitlers er það bundið í lög að landið sé stéttlaust þjóðfélag og sá sem heldur öðru fram skal dæmdur að lögum.

KPD/ML hefur vaxið mjög að styrk undanfarin ár, og samhliða hafa ofsóknirnar á hendur flokknum vaxið. Nýlega var tilkynnt að flokkurinn hefði stofnað flokksdeild í A-Þýskalandi og er það góður mælikvarði á styrk flokksins. Það er því engin tilviljun að borgaralega ríkisvaldið skuli nú sækja framámenn flokksins til saka fyrir kommúníska starfsemi.

Gífurleg áróðursherferð gegn flokknum hefur verið sett af stað, og málaferli og fangelsanir á flokksmeðlimum hafa verið daglegt brauð. Formaður flokksins, félagi Ernst Aust, hefur verið sóttur til saka fyrir grein sem hann skrifaði í málgagn flokksins árið 1973 og hann dæmdur í háar fjársektir. Ritstjóri Roter Morgen, Katrín Wagner, og forlagsstjóri flokksins, Gernot Schubert, voru dæmd til 1 árs og 4. mánaða fangelsis, og mörg tölublöð blaðsins ásamt öðru útgáfuefni gerð upptæk.

Víða um Þýskaland hafa verið haldnir fundir og göngur til að mótmæla þessum stéttadómum, og í Dortmund gengu 500 manns undir vígorðunum: "Það er ekki hægt að banna kommúnismann! Frelsi til handa Roter Morgen!"

V-Þýskaland, sem ekki fyrir löngu var kallað lýðræðislegasta ríki Evrópu á síðum Alþýðublaðsins, er á góðri leið með að verða hálf-fasískt ríki þar sem baráttu verkalýðsins er mætt með nöktu lögregluofbeldi. Þær árásir sem bestu menn verkalýðsstéttarinnar í V-Þýskalandi, marxistar-lenínistar í KPD/ML verða fyrir, eru aðeins upphafið að árásum gegn sérhverjum samtökum verkalýðsins.

Stéttabaráttan og KFÍ/ML lýsa yfir fullum stuðningi sínum við félaga okkar í KPD/ML og fordæma lögregluofbeldi þýskrar borgarastéttar.

Lifi KPD/ML!

Fullt frelsi til handa kommúnistum í Þýskalandi - gegn öllum skerðingum á lýðræðisréttindum verkalýðsins!

-/ÓI

# Einkabílaeign nauðsyn

Það virðist ríkja hálfgerð öfugþróun í þjónustu þeirri er Strætisvagnar Reykjavíkur veita almenningi hér í borg. Í stað þess sem telja mætti eðlilegt, að þjónusta vagnanna yrði meiri og betri, er sífellt verið að minnka hana jafnframt því að fargjöld hækka. Ég þarf ekki að nefna nein dæmi því lesendum Stéttabaráttunnar ætti flestum að vera fullkunnugt um það, og nú fyrir skemmstu var miðhluti tímatöflu vagnanna felldur niður.

En þessi þróun er ekki svo undarleg ef menn gæta að því að þeir menn sem sitja í stjórn strætisvagnanna eru margir hverjir meira eða minna tengdir bílainnflutningi. Það virðist eiga að gera einkabílaeign að nauðsyn, og hefur það tekist í mörgum tilfellum. Þetta á sérstaklega við um "svefnhverfin", þ.e. Breiðholts- og Árbæjarhverfi. Fólk á þar oft í erfiðleikum með að komast til og frá vinnu, þá sérstaklega að vetri til og tala ég þar af eigin reynslu. Einnig virðist lítið vera hugsað um að auka strætisvagnaþjónustuna við stór vinnustaða hverfi, og hef ég þar Ártúnshöfðahverfið helst í huga. Tilgangur minn með því að vekja máls á þessu er að benda á að þarna er verið að vega að hagsmunum megin þorra alþýðu, og er það ósk mín að Stéttabaráttan taki þetta mál til frekari umfjöllunar.

Lesandi.



**Þessi mynd er tekin af umferðargötu í London á venjulegum eftirmiðdegi.** Þar er varla þverfótað fyrir bílum, og ökumenn eiga í erfiðleikum með að komast leiðar sinnar.



**Hér sjást ökumenn bílann á** myndinni til vinstri, 69 talsins. Þeir taka augljóslega mun minna pláss án bíls og....



**gætu þessir 69 ökumenn hæglega** rúmast í einum strætisvagni (reyndar breskum). Umferðin myndi ganga betur fyrir sig ef þeir notuðu strætó. En ef svo ætti að vera þyrfti almenningsvagnaþjónusta að vera miklu betri en raun ber vitni. En.... strætisvagna"þjónustan" miðast ekki við þarfir alþýðunnar, heldur hagsmuni auðvaldsins.

# GNISTAN 10 ára




Um síðustu áramót hófst tíundi árgangur GNISTAN, málgagns Kommúnistaflokks Svíþjóðar (SKP).

Blaðið hóf göngu sína í maí 1967 sem fjölritað átta síðna blað í fimm hundruð eintaka upplagi. Ritstjóri á þessum fyrstu árum var Nils Holmberg, sem hóf opinskáa baráttu gegn þáverandi forystu Kommúnistaflokks Svíþjóðar, (nú Vinstri flokkurinn - kommúnistarnir).

Núverandi ritstjóri er Stefan Lindgren og kemur GNISTAN nú út vikulega, tuttugu og fjórar síður að staðaldri, og upplagið hefur vaxið upp í sautján þúsund eintök.

Afmælisárið halda sænsku marx-lenínistarnir hátíðlegt með því að setja af stað fjársöfnun, svo mögulegt verði að breyta GNISTAN í dagblað.

STÉTTABARÁTTAN sendir sænsku félögunum árnaðaróskir og baráttukveðjur.

Framhald af bls. 6

# ....besti kennarinn

að sú undirheimamenning sem tíðkaðist í kínverskum borgum áður fyrr var ekkert annað en afleiðing lénsskipulagsins sem þar ríkti og arðráns evrópumanna.

Stb.: En er mikið um glæpi? Skoðuðuð þið einhver fangelsi?

- Nei, við skoðuðum engin fangelsi, en þau eru til í Kína. En glæpir eru ekki miklir í Kína, aðallega smáþjófnaðir eins og reiðhjólastuldur. Við þjófnuðum liggur þung refsing, og reyna menn það ekki nema einu sinni. Stærri glæpir eru afar sjaldgæfir.

Stb.: Veistu hvernig farið var með pólitíska andstæðinga í Kína?

- Mér skilst að pólitískum andstæðingum hafi flestum verið sleppt. Eftir frelsun voru ýmsir hnepptir í fangelsi og þeim veitt endurhæfing, eins og kínverjar orða það. Það er reynt að endurhæfa þá hugarfarslega og sýni þeir bót og betrun í fangelsunum er þeim sleppt út. Þess má geta að kínverska keisaranum var haldið í fangelsi í 9 ár. Kínverjar segja að það hafi verið mjög vel litið eftir honum í æsku, en "við kenndum honum að líta eftir sér sjálfur." Eftir að honum var sleppt úr fangelsinu var honum veitt almenn vinna. Sjálfur sagði hann í viðtali sem Edgar Snow tók við hann 1967: "Í stað þess að drepa mig, þá menntuðu þeir mig."

Stb.: Hvernig hafa listir þróast í Kína?

- Listir í Kína voru áðurfyrr að ýmsu leyti handverk sem stunduð voru fyrir aðalinn, og stóðu því lengi í stað, enda sagði Konfúsíus að tónlistin væri einn undirstöðuþáttur ríkisins og honum mætti ekki breyta. En á seinni tímum hefur verið farið eftir boðum Maó formanns, sem hann setti fram í ræðu um bókmenntir og listir í Jenan árið 1942. Þar leggur hann megináherslu á að listin verði að þjóna alþýðunni, en megi ekki vera í eign fámennra hópa. Eftir að menningarbyltingin reið yfir þá hefur öll list tekið stökkbreytingum, hún hefur orðið miklu fjölbreytilegri að allri gerð, en inntakið er aðallega tengt byltingunni og atvinnuvegunum.

Stb.: Hefur verið unnið vísvitandi gegn trúarbrögðum?

- Það er auðvitað unnið markvisst að marxískri fræðslu í landinu, og hún hlýtur að berjast gegn trúarbrögðum, sbr. tilvitnuna að trúarbrögð séu ópíum fólksins. Ég held að trúhópar sæti alls ekki ofsóknum eins og haldið hefur verið fram, enda hefur hver maður rétt til að hafa sínar skoðanir, og trúarbragðafrelsi er viðurkennt í stjórnarskránni, en trúarfræðsla hins vegar bönnuð.

Stb.: Spurðuð þið kínverjana eitthvað um landamæradeilur þeirra við Sovétríkin og Indland?

- Já, þeir viðurkenndu að eftir frelsun landsins hefðu komið upp viss söguleg vandamál um landamæri einstakra ríkja, eins og ætíð er ný ríki eru sett á stofn en slík vandamál hefðu verið þurrkuð út nema hvað varðar þessi tvö ríki. Landamæradeilan við Sovétríkin væri á mjög viðkvæmu stigi. Þeir telja sig eiga heimtingu á löndum sem rússar sölsuðu undir sig þegar keisaradæmið var mjög veikt. Hins vegar vildur þeir fá leiðréttingu á landamærunum við Indland og stungu upp á því að ríkin færðu heri sína 20 km frá núverandi landamærum ríkjanna, þannig að 40 km hlutlaust svæði myndaðist, en það hafa Indverjar ekki viljað fallast á. Kínverjar telja að landamærin á þessu svæði eigi að fylgja eðlilegum vatnaskilum.

Stb.: Í viðtali við þig sem birtist í Þjóðviljanum er neðanmálsgrein sem fjallar um áróðurstækni stórveldanna og jafnvel látið að því liggja að ykkur hafi aðeins verið sýnt það besta í Kína. Hvað hefur þú um þessa grein að segja?

- Ég verð nú að viðurkenna að þessi grein kom mér nokkuð á óvart sérstaklega vegna þess að þarna var blandað saman lágkúrulegum hugsunarhætti og Tao, sem er að ýmsu leyti göfug hugsun. Ég get ekki fallist á það að okkur hafi eingöngu verið sýnt það besta í Kína. Ef svo hefði verið þá hefði okkur ekki verið sleppt lausum á kvöldin og látnir valsa um að vild. Og þá hefðu þeir ekki átt að fara með okkur út í sveitir landsins og sýna okkur fólk við akuryrkjustörf sem beitir handafli og jafnvel uxum fyrir plóginn. Að vísu er mikil vélvæðing í kínverskum landbúnaði og fer hún vaxandi. Stefna kínverjar að því að vélvæða landbúnaðinn fyrir 1980. Ég held að kínverjar hefðu þá haft vit á því að velja vélvædd héruð.

Stb.: Viltu eitthvað segja að lokum?

- Ég vil leggja á það áherslu að mönnum verður það skiljanlegra eftir að þeir hafa komið til Kína og talað við kínverskan almenning hversu mjög Mao Tse-tung og Kommúnistaflokkurinn eru dáðir. Fólkið finnur að það á þeim svo gífurlega mikið að þakka. Það sem snart mig dýpst í þessari ferð var að kynnast þessu mikla erfiði sem fólk lagði á sig til að skapa sér og öðrum lífskjör sem viðunandi gætu talist, og sögurnar af vörum fólksins um lífskjörin fyrir frelsun. Það var eins og að fá kalda vatnsgusu framan í sig að heyra konu segja frá því að hún hefði eignast sitt fyrsta barn fyrir frelsun. Þau hjónin hefðu orðið að vinna bæði úti vegna þess að verð á hrísgrjónum var svo hátt og dagskaupið hrökk varla fyrir hrísgrjónaskammti. Þau áttu enga ættingja til að gæta barnsins, og þess vegna dó það úr hungri og næringarskorti.

Það hafði líka mikil áhrif á mig að heyra af vörum gamals fiskimanns frá því þegar hann var neyddur til þess að vinna fyrir Kuomintang-stjórnina. Hann var látinn hlaða fyrir þá virki í nauðungarvinnu uns svæðið var frelsað af öðrum her. Hermenn þess hers hjálpuðu honum að gera við netið hans og bentu honum á ýmislegt sem betur mætti fara við fiskveiðarnar. Þeir borguðu honum líka kaup fyrir þá vinnu sem hann vann fyrir þá. Sú afstaða hermannanna að þjóna alþýðunni vann þeim og byltingunni mikið fylgi. Ég held að kínversk alþýða sé langbesti kennarinn um byltinguna. Það jafnast ekkert á við það að heyra almenning segja sjálfan frá.

-/GÁ, ISJ

frh. af bls. 8.

# Fallstykki

ur ekki tekið þessu með þegjandi þögninni, og fréttir hafa borist af verkföllum og öðrum mótmælaaðgerðum gegn vöruskortinum. Með sama áframhaldi er þess ekki langt að bíða að nýju keisararnir í Kreml láti hengja upp sama vígorð og gömlu keisararnir svöruðu alþýðunni með: "Félagi, éttu það sem úti frýs."

## Byggðaröskun

Hrun landbúnaðarins hefur leitt til þess að mikill fjöldi bænda hefur flosnað upp og flúið strit og þrælkunina til sveita. Á árunum 1959 - 1970 flúðu 1,5 milljón til bæjanna að meðaltali á ári, en nú er áætlað að tala þeirra sé ekki minni en 2 milljónir árlega. Opinberar heimildir segja að algengt sé að lífskjör bænda séu langt undir því lágmarki sem ríkið setur hvað varðar kaup og kjör. Forstjórar búa hafa mikil fríðindi, og skammta sér sjálfir laun. Oft eru þau 20-30 sinnum hærri en laun landbúnaðarverkamanna, auk bónusa og þóknana sem þeir fá. Það er opinbert leyndarmál að forstjórarnir falsi oft framleiðsluskýrslur og haldi eftir vörum sem þeir síðan selji á svörtum markaði. Dæmi eru um forstjóra sem ekki höfðu komið á búin um árabil en lifðu við glaum og gleði í sumarhöllum niður við Svartahaf.

Brésnef sagði 1965 að allt skyldi gert til að styrkja landbúnaðinn, og allt sem hugsast gæti yrði gert til að efla vélvæðingu hans. En loforðin hafa öll verið svikin. Eftirspurn eftir tækjum, rafmagni, olíu og bensíni er mikið meiri en landbúnaðinum er látið í té, en "því miður getur þessi framleiðslugrein ekki fengið meira því vopnaiðnaðurinn krefst alls sem við getum látið af hendi" eins og embættismennirnir svara.

## "Fallstykki eru meira verð en brauð"

Varnarmálaráðherra Sovétríkjanna, Dimitri Ustinof, er þekktur í Sovétríkjunum undir uppnefninu "stálæta." Þetta viðurnefni hefur hann fengið vegna þeirrar afstöðu sinnar að "byssur séu meira verðar í efnahagsstefnunni en brauð." Á sama tíma og landbúnaðurinn hrynur vegna þess að honum er ekki sinnt, alþýðan líður vegna matvælaskorts, almannaþjónusta og heilbrigðisþjónusta eru miskunnarlaust skorin niður, þá er ekkert sparað til að efla vopnaframleiðsluna.

Sökum hervæðingar undanfarinna ára ráða sovétmenn í dag stærsta her í heimi, með 4,5 milljón manna fastaher og 25 milljón manna varaliði. Á sama tíma og kornframleiðsla hefur stöðugt dregist saman og landið er ekki sjálfu sér nægt um landbúnaðarafurði eru smíðuð 700 ný herskip. Eina atvinnan sem þær milljónir sem flúið hafa landsbyggðina geta fengið er við vopnaframleiðslu, því eins og á dögum Hitlers í Þýskalandi er algeru hruni efnahagsins ýtt á undan sér með offjárfestingum í hergagnaiðnaði. Á sama hátt og efnahagskerfi Hitlers byggði á stríðsrekstri, þannig byggir efnahagskerfi Sovétríkjanna á stríðsrekstri. Til að byggja upp þetta mikla herveldi sem í dag ógnar heimsfriðnum verður hin kúgaða alþýða Sovétríkjanna að búa við það boðorð heimsvaldastefnunnar að "fallstykki eru meira verð en brauð."

-/ÓI

# Lygi verður ekki...

við fyrrverandi ráðherra í stjórn Allende sem birtist í Þjóðviljanum fyrir skömmu).

Hversu oft sem Þjóðviljinn tyggur upp lygarnar um Kína þá geta þær aldrei blekkt alþýðuna til lengdar. Lygavefur endurskoðunarsinnanna mun að lokum ljúkast um þá sjálfa. Orsakirnar fyrir blóðbaðinu í Chile er m.a. að leita í afstöðu Kommúnistaflokks Chile (endurskoðunarsinnaður), en hann er einn af dyggustu fylgiflokkum Moskvu.

Flokkurinn boðaði verkalýðnum "friðsamlegu" leiðina til sósíalismans og tók þátt í því að afvopna verkalýðinn. Kenningarnar um hina "friðsamlegu" leið til sósíalisma eru upprunnar hjá endurskoðunarsinnum, þ.á.m. Krúsjof og Brésnef. Ábyrgð þeirra er því mikil og þótt "and-fasismi" þeirra sé hávær núna þá mun sagan dæma þá réttilega að lokum sem erki-svikara við baráttu kúgaðra þjóða og stétta hvarvetna.

-/hh



中华人民共和国驻智利共和国大使馆

Nº 984/75

La Embajada de la República Popular China en la República de Chile saluda muy atentamente al Honorable Ministerio de Relaciones Exteriores de la República de Chile y tiene el honor de solicitarle que tenga a bien proponer la fecha conveniente para las negociaciones de la Comisión Mixta de los representantes de la República de Chile con los de la República Popular China, para precisar los detalles técnicos de la entrega de armas seleccionadas para las Fuerzas Armadas de Chile.

La Embajada de la República Popular China hace propicia la ocasión para reiterar al Honorable Ministerio de Relaciones Exteriores el testimonio de su más alta consideración.

Santiago. 28 de Octubre de 1975



Al Honorable Ministerio de Relaciones Exteriores de la República de Chile
Santiago.

Þetta bréf birti Þjóðviljinn sem sönnun þess að Kína seldi Pinochet vopn. Bréfið var fyrst birt opinberlega í blaði perúanskrar stúdentahreyfingar sem er miðstöð fyrir úbreiðslu moskvulyga gegn Kína. Bréfið er falsað og löngu afhjúpað af kínversku stjórninni - en tilgangur Þjóðviljans er sá að þjóna herrum sínum í Kreml og þá eru öll meðul notuð.

frh. af bls. 3.

# Sósíalismi

Þar er því framleitt samkvæmt áætlun, fjárfest í nýjum og betri tækjum eftir áætlunum sem ná til allrar þjóðarframleiðslunnar. Þannig er hægt að fullnægja hagsmunum alls þjóðfélagsins, að launin séu sem hæst en lækki ekki og að verðlag haldist stöðugt.

Við sjáum því að orsakanna fyrir verðbólgunni er að leita í skipulagi auðvaldsþjóðfélagsins. Hún stafar af því að einkaeignin á framleiðslutækjunum leiðir af sér sókn eftir hámarksgróða auðstéttarinnar.

Þessi leit að sem mestum gróða hefur einnig þau áhrif á þjóðfélagið að þar skerpast öll innri átök. Eftir því sem laun verkalýðsins eru lægri verður gróðinn meiri. Barátta verkalýðsins fyrir því að bæta afkomu sína stangast því óhjákvæmilega á við baráttu kapitalistans við að auka gróðann. Þessi hagsmunabarátta stéttanna leiðir því óhjákvæmilega til stéttabaráttu, sem mun standa eins lengi og framleiðslutækin eru í einkaeigu.

## Niðurstaða

Með því að bera það, sem aðallega einkennir þessi tvö efnahagskerfi, saman sjáum við að það er einkaeignin á framleiðslutækjunum sem er aðal orsökin fyrir efnahagsörðugleikum V-Evrópu. Auðvitað eru fleiri þættir sem gera þessi tvö efnahagskerfi frábrugðin hvort öðru, en þeir eru flestir afleiðing þessa

T.d. eru engir skattar í sósíalísku ríkjunum, þar er mjög fullkomin heilsugæsla, sem er því sem næst ókeypis, menntun er fyrir alla, en ákvarðast ekki af efnahag hvers og eins - og svo mætti lengi telja. Hvernig ætti t.d. að fjármagna ríkisapparat kapitalismans án skatta og hvernig færi með gróða lyfjaframleiðenda og eigenda heilsugæslustöðva ef heilsugæsla væri ókeypis? Slíkar umbætur passa ekki inn í skipulag auðvaldsþjóðfélagsins sem byggir veru sína á gróða af vinnu alþýðunnar. Alls konar skattur og greiðslur fyrir heilbrigðisþjónustu og menntun er nauðsynlegur fylgifiskur kapitalismans, vegna einkaeignarinnar á framleiðslutækjunum.

Í sósíalísku ríkjunum þar sem einkaeignin á framleiðslutækjunum hefur verið afnumin er engin verðbólga, skattar eða annað sem ekki miðast við hagsmuni alþýðunnar. Til að ná þessum umbótum er aðeins ein leið fær: Leið stéttabaráttunnar - leið sósíalismans.

-/GA

frh. af bls. 3

# Áburðarv.

## Leið stéttabaráttu er eina rétta leiðin

Gegn sundrungartilraunum verkalýðsforystunnar er aðeins ein leið fyrir verkamenn og iðnaðarmenn í Áburðarverksmiðjunni: Að samstilla kröfur sínar og standa saman sem einn maður. Það er mikið fleira sem sameinar hagsmuni verkamanna og iðnaðarmanna en sundrar í baráttunni gegn auðvaldinu. Öllum sundrungartilraunum verkalýðsforystunnar á að vísa á bug, en taka samningagerðina í eigin hendur. Eining á grundvelli stéttabaráttu er aflið sem færir sigur.

-/RS, ÓI

FRAMHALD AF FORSÍÐU

# Verkalýðsfélögin

fram í því að stór hluti verkamanna er hættur að líta á verkalýðsfélagið sem sverð sitt og skjöld, og fjölmargir verkamenn, sérstaklega ungir verkamenn, hirða ekki um að ganga í verkalýðsfélögin. Það er í skjóli þess að fimmta herdeildin innan raða verkalýðsins, ASÍ-forkólfarnir, hafa sundrað samstöðu verkamanna með stefnu undansláttar og makks, að borgarastéttin getur svo auðveldlega sem raun ber vitni framkvæmt kjaraskerðingar sínar og kauprán.

Verkalýðsfélögin tilheyra verkalýðsstéttinni en ekki þess um aðli sem hugsar um það eitt að blóðmjólka bitlinga og "vera í sólinni" hjá auðvaldinu. Verkalýðsfélögin eiga sér langa baráttuhefð og glæislega sögu sóknar og sigra, en aðall inn sem þeim ræður nú er önnum kafinn við að skrifa aðra sögu, sögu makks og undansláttar, ósigra og vonleysis, á meðan þeir sjálfir eru skreyttir fálkaorðum, bankastjórastöðum og öðrum bitlingum! Höfuðbarátta sérhvers stéttvíss verkamanns í dag er því fyrir að endurheimta verkalýðsfélögin úr höndum aðalsins, og gera þau að raunverulegum baráttutækjum fyrir verkalýðsstéttina. Forystuafl okkar í þessari baráttu er KFÍ/ML, sem einn flokka hefur enga aðra hagsmuni en verkalýðsstéttin. Baráttan krefst þess að sérhver stéttvís verkamaður skipi sér við hlið flokksins í þessari baráttu. Aðeins eining á grundvelli stéttabaráttu getur fært okkur sigur og gert verkalýðsfélögin að baráttutækjum.

-/ÓI

FRAMHALD AF FORSÍÐU

# „Rauða strikið"

istaflokks Íslands m-l til að brjóta niður auðvaldsskipulagið og ríkisvald þess og byggja á rústum þess þjóðskipulag sósíalismans., þar sem hinn vinnandi maður drottnar jafnt yfir framleiðslu tækjunum sem ríkisvaldinu og beitir hvorutveggja í sína þjónustu. Með þetta markmið í huga verðum verið að starfa innan verkalýðsfélaganna og annarra fjöldahreyfinga, á vinnustöðum og hvar sem verkalýðinn er að finna.

-/SJÓ

# Raunverulegir hryðjuverkamenn

Fyrir skömmu voru handteknir í írska lýðveldinu átta meðlimir Special Air Services, SAS, sem fóru gráir fyrir járnum frá N-Írlandi yfir landamærin til lýðveldisins. SAS, sem kallað er úrvalslið breska hersins, var nýlega sent opinberlega til Írlands, þrátt fyrir að almennt sé vitað að þar hafa þeir verið starfandi mjög lengi. Þetta er þrautþjálfaður hópur glæpamanna sem hafa verið notaðir af bresku heimsbaldastefnunni til að framkvæma hryðjuverk víðs vegar um heimin. Því var það mjög við hæfi að írska stjórnin dró þá fyrir rétt vegna hryðjuverka þeirra.

Þrátt fyrir handtökurnar halda breskar liðssveitir áfram að fara óboðnar yfir landamærin með hroka og yfirgangi.

Breska heimsvaldastefnan hefur þannig bætt enn einum glæp á langan lista yfir hryðjuverkin gegn írskri alþýðu.

Ástæðan fyrir þessum yfirgangi er í orði kveðnu að athuga það sem viðkemur hryðjuverkamönnum, en er í raun til að hræða íbúa landamærabæjanna sem eiga sér langa sögu í að aðstoða samlanda sína í norðri. Breska heimsvaldastefnan hefur gert N-Írland að geysistórum fangabúðum. Miðborg Belfast er í dag umkringd miklum stálgirðingum. Allt það svæði er stöðugt ransakað og íbúm þess ógnað.

Aðgerðir bresku hermannanna eru sönn dæmi um hryðjuverkastarfsemi. Þeir sem stunda sprengjutilræði og morð þrífast aðeins í skugga breska hernámsins. Endalok breska hernámsins og stjórnun þeirra á N-Írlandi mun einnig verða til að stöðva hryðjuverkastarfsemina.

The Worker, no. 11 1976



# LIBANON

Framhald af forsíðu.

hluti og annað sem þurfti til að halda hernum gangandi. Bandaríkin hótuðu beinni íhlutun í stríðið ef líkur væru á að Ísrael væri að tapa.

Í dag eru það Sovétríkin sem hóta hernaðaríhlutun í Libanon. Á sama hátt og Kissinger hvatti Ísraelsmenn til dáða og árásar gegn örubum, þannig var sjálfur forsætisráðherra Sovétríkjanna, Kosigin, í Sýrlandi á innrásardeginum og hvatti Assad til að láta hvergi deigan síga.

Áður en innrásin hafði varað í tíu daga hafði sovéski flotinn aukið styrk sinn fyrir utan strendur Libanon uppí 70 skip, og bandarísk skip voru 50. Sovétríkin hafa krafist nýrrar Genfarráðstefnu um Mið-Austurlönd, þrátt fyrir andstöðu palestínuaraba og þorra arabískrar alþýðu við það. Palestínuarabar benda á að ný ráðstefna yrði ekki til annars en að auka utanaðkomandi íhlutun í Mið-Austurlöndum.

Palestínuarabar hafa gagnrýnt harðlega stuðning Sovétríljanna við Ísrael, sem enn kemur helst fram í auknum útflytjenda straum þangað. Með útflytjnendum frá Sovétríkjunum fær hin hrjáða stríðsvél Ísrael það sem hana vantar mest: Tæknikunnáttu og mannafla. Sovétríkin sem áður voru með hástemt kjaftæði um "eilífan stuðning við þjóðfrelsisbaráttu palestínskara alþýðu" hafa nú hætt öllu slíku en einbeita sér að því að ná betri tengslum við Ísrael. Sem liður í því er að sendiherrar ríkjanna í USA hafa haft með sér fundi, og nú er stödd í Ísrael sendinefnd frá Sovétríkjunum sem ræða á leiðir til að koma á "eðlilegu sambandi milli ríkjanna."

## PLO hafnar svikurunum

PLO undir leiðsögn Arafats hefur harðlega fordæmt svik Sýrlendinga og tilraunir þeirra og Sovétmanna til að fremja valdarán innan PLO. Slíkt valdarán átti að gera með því að leiðtogi Saiqa-frelsishreyfingarinnar, sem er mjög höll undir Sýrland og Sovétríkin, Zuheir Mohnsen, átti að taka völdin og fagna innrás sýrlendinga. En ráðagerðin fór út um þúfur og Mohnsen varð engin Husak sem fagnaði innrásinni eins og í Tékkoslovakiu 1968. Mohnsen var almennt fordæmdur innan PLO og hann sviptur öllum trúnaðarstörfum þar og rekin úr samtökunum. Þessar tilraunir hafa líka orðið til þess að fylgið hefur hrunið af Saiqa og DPFLP sem mjög er höll undir Sovétríkin.

## Afstaða KFÍ/ML til þess sem er að gerast í Libanon

Kommúnistaflokkur Íslands/ML styður rétt líbanskrar alþýðu til að gera út um sín mál sjálf án utanaðkomandi íhlutunar. KFÍ/ML krefst þess að sýrlenski herin hverfi þegar í stað burt úr landinu. Við styðjum baráttu arabískrar alþýðu gegn síonisma og heimsvaldastefnu og styðjum heilshugar baráttuna fyrir frelsun Palestínu. Mið-Austurlönd tilheyra arabískri alþýðu og KFÍ/ML fordæmir íhlutun og útþennslustefnu risaveldanna þar. Risaveldin verða að fara með flota sinn frá ströndum Libanon og hætta allri íhlutun í Libönsk innanríkismál, jafnframt því sem þau verða að hætta öllum beinum eða óbeinum stuðningi við innrás sýrlendinga

-/23/6 ÓI.

# Fjársöfnun hleypt af stokkunum

Undanfarið hafa lesendur STÉTTABARÁTTUNNAR orðið vitni að síbreytilegri útgáfutilhögun blaðsins, bæði varðandi framleiðslutækni og útgáfutíðni. Orsök þessa eru áætlanir og tilraunir ritnefndar í þá átt að gera blaðið virkara baráttublað sem getur gripið inn í gang baráttunnar jafnóðum. Það liggur ljóst fyrir, út frá þeim kröftum sem við höfum núna, að reglulegt vikublað er hentugasta vopn okkar. Stefnan er því að koma því á laggirnar sem fyrst. Öllum hlýtur að vera það ljóst að það verkefni er geysierfitt samtímis því sem það er nauðsynlegt fyrir íslensku byltingarhreyfinguna.

Tilraunirnar með framleiðslutæknina hafa verið við það miðaðar að lækka prentunarkostnaðinn - en eins og lesendur hafa orðið áþreifanlega varir við þá bitnar það á prentgæðunum. Ritnefnd hefur verið með ýmsar þreifingar varðandi prentun - en hnífurinn stendur alltaf í kúnni sökum kostnaðar.

Það upplag sem STÉTTABARÁTTAN hefur í dag er ekki nægilega stórt til að standa undir offsetprentuðu hálfsmánaðarblaði til langframa. En það er einnig ófært að stunda þær aðferðir sem við notum nú (límingin t.d.) ef upplag blaðsins á að aukast að ráði.

## Söfnun

Við stöndum því á krossgötum. Tvö meginverkefni blasa við í skipulagsmálum útgáfunnar: 1) að koma upp eigin offsetprentsmiðju og öðrum tækjabúnaði fyrir framleiðslu og útsendingu blaðsins. 2) að ráða til blaðsins starfskrafta til þess að hægt sé að gefa út vikublað.

Bæði þessi verkefni krefjast stórfjár og stærra upplags.

En það hefur sýnt sig í gegnum árin að því oftar og reglulegar sem STÉTTABARÁTTAN kemur í hendur lesenda, þess fleiri eru reiðubúnir að gerast áskrifendur og reglulegir kaupendur. Vikublaðið mun því stuðla að auknu upplagi þegar það byrjar að koma út.

En til þess að koma því í kring þarf fjármagn eins og fýrr segir. Við - þ.e. allt baráttufólk og velunnarar blaðsins verðum að safna þremur og hálfri milljón til þess að tryggja útgáfu vikublaðsins í nánustu framtíð.

Í fyrsta áfanga er markið 500.000 - og jafnvel hann verður erfiður.

En til þess að heyja stéttabaráttu þarf STÉTTABARÁTTUNA, baráttan gegn endurskoðunarstefnunni og heimsvaldastefnunni heimtar sterkara baráttumálgagn. Það er því liður í stéttabaráttunni og högg gegn auðvaldinu þegar við vinnum að eflingu STÉTTABARÁTTUNNAR.

Félagar, hefjið strax undirbúning að baráttunni, sendið inn pantanir fyrir kvittanaheftum o.fl. til þess að nota við söfnunina.

EFLUM STÉTTABARÁTTUNA.

# Sumarmót KFI /ML

Fyrsta sumarmót Kommúnistaflokks Íslands m-l verður haldið dagan 31. júlí - 2. ágúst. Mótið verður með svipuðu sniði og fyrri mót KSML.

Allir félagar og velunnarar flokksins eru hvattir til að láta skrá sig í síma 27810 á opnunartíma Rauðu stjórnunnar. Nánari upplýsingar um tilhögun mótsins er hægt að fá í sama síma. Ath. að neysla áfengis verður stranglega bönnuð.



Frá sumarmótinu 1974

Stéttabaráttan þakkar velunnurum sínum fyrir útbreiðslu blaðsins síðustu mánuði. Nú þegar hafa fjögur svæði fyllt út sinn kvóta. Enn er samt langt í langt í land að útbreiðslan sé viðunandi. Margir áskrifendur hafa týnst vegna þess að þeir hafa ekki tilkynnt um breytt heimilisfang þannig að nýir áskrifendur á þessu ári fara að nokkru leiti í að fylla þetta skarð. Það er því nauðsynlegt að þau svæði sem enn eiga eftir að fylla út sinn kvóta og hin sem þegar hafa gert það vinni enn betur að útbreiðslu Stéttabaráttunnar. Það má t.d. senda vinum og kunningjum Stéttabaráttuna, sem ekki kaupa hana og greiða áskrift fyrir þá svo þeir kynnist blaðinu.

# Gerist áskrifendur

Ég óska að gerast áskrifandi að STÉTTABARÁTTUNNI

Frá og með tbl. .......

☐ Baráttuáskrift 3000.- kr. fyrir 24 tbl.

☐ Stuðningsáskrift 2400.- kr. fyrir 24 tbl.

☐ Venjuleg áskrift 1800.- kr. fyrir 24 tbl.

Nafn:..........................................

Heimilisfang:..................................

Sendið miðann til STÉTTABARÁTTUNNAR, Pósthólf 1357

# Áskriftaherferðin

| Svæði | Kvóti | 50% / 100% |
|---|---|---|
| Akureyri | 25 | 9 |
| Egilsstaðir | 5 | 4 |
| Hafnarfjörður | 10 | 5 |
| Húsavík | 5 | 2 |
| Keflavík | 10 | 11 (110%) |
| Kópavogur | 12 | 10 |
| Neskaupstaður | 7 | 3 |
| Reykjavík | 80 | 54 |
| Suðurland | 15 | 11 |
| Vesturland | 10 | 11 (110%) |
| Norðurland | 5 | 7 (140%) |
| Austurland | 10 | 7 |
| Útlönd | 6 | 6 |
| Heildin | 200 | 140 |